# Huss-Postilla/

EDUR

EINFALLDAR

# PRÆDIK-ANER

Yfer øll Hatijda og Sun̄udaga Gudspiøll
Ared um̃ Kryng.

Giørdar

Af

Vel-Edla og Vel-Eruverdugum̃ Sal. Byskupenum
Yfer Skalhollts Stifte/
MAG: JONE THORKELS-SYNE
VIDALIN.

Fyrre Parturen̄.

Fra Fyrsta Sun̄udeige i Adventu/ til Trinitatis
Sun̄udags.

EDITIO III.

Prentud a Hoolum i Hialltadal/ af Marteine Arnodds-Syne/ Anno 1736.



Esaiæ. 40. v. 6. 7. 8.

Þar seiger Ein Raust: Predika þu. Og eg sagde: Hvad skal eg Predika? Allt Holld er Hey / og allur þess Goode er svo sem Akurs sins Bloomstur / Heyed uppþornar / Bloomstred visnar / þvi ad Andenn Drottens blæs þar aa / Sannlega er Foolked Hey / Heyed uppþornar / Bloomstred visnar / Enn Orded vors Guds varer Eilijflega.



Gief þu ad Moodurmaaled mitt / Minn Drotten þess eg beide / Fra allre Villu klaart og kvitt / Krossens Ord þitt wtbreide / um Landed hier / Til Heidurs þier / Hellst mun þad Blessan vallda / med ann þijn Naad / Vort lætur Laad / Lide og Bygdum hallda.



HINNE
Dijrkeyptu JEsu Christi Brwde
# Christelegre Kyrkiu
GVDS
I ISLANDE.
Mine Hiartkiærre Modur/Oska eg Fridar og Heilla
Af Sijnum Bnusta.

## Elskulega Mooder.

Ad er bæde Guds Bod og vidteked hia ollum Piood-um / ad Børn eru skylldug ad ala Forelldra sijna / ef þau gieta. Eñ Fæðskur er eg og Banburda til þess Mooder ad ala þig/jafnvel þott ad aungvū af Sonum þijnum sie þad skylldara eñ mier / þu ert og ecke i þvi mijns Lids-þurfe / þvi Fader þijns Elsk-uga og allra hañs Brædra/hefur Enda bunded a sijn Neit/ er rifud standa hia Esajam i Ferkugasta og Niunda Capitula. Konung-arner skulu vera þijner Foosturfedur / Og þeirra Hofdings Kvinur þijnar Foosturmædur. Hvørs Naaduga Fyrerheitis ad þu ert ordeñ Hluttakande / Eins vel og hvør Piood i CHRISTEñdoomenum / og i Krapte þessa Fyrerheitis hefur hañ giefed þier/epter Raadstaf-un Konunga vorra/marga Gudhrædda og Vijsa Kieñendur og Vor-stioora/ sem vaka yfer Saalum Barna þiña: Eñ þott eg sie þeirra Verkastur/ og kuñe ecke miklu vid þeirra Verk ad bæta / Samt veit eg Skylldu mijna ad þocknast þier i þvi eg kañ og maa/ epter þeirre Naad sem Gud hefur giefed mier. Eg les i Exodi Bookar Þrijt-ugasta og Fimta Capitula/ Ad þegar Gud bañd Moysi ad laata gio-ra Vitnisburdar Tialldbwdena/ þa hafe hñ skipad/ ad til heñar skylldu de leggia hvør eirn epter þvi sm̄ þeir sialfkrafa villdu/Sumer Gull/

Sumer Sylfur/Sumer Kopar og dýrmæt Klæde og Steina/eñ adrer Geita-Ull og Hrwka-Skiñ / med ødru fleira sem þar uñ giefur og var i miña Gillde. Medal þeirra Sydurstu reikna eg mig/ og mæ ve reikna/søkum Fæfrædis mijns og Overdugleika/ Eñ fyrer þvi ad eg veit/ad þiñ HErra ælijtur meir Viliañ eñ Mættteñ/þa voga eg ad biooda þier epterfylgiande Predikaner i Þacklætes Mifiing/ ad eg hafe leiged/ og ligge eñ nu a Briooftum þier. Þigg þvi Mooder þeñañ lyteñ Skeink af hinum Aumasta Þienara þyns Brwdguma/ og þynum Miñsta Syne/ Sem vil æstunda ad fiñast

Skælhollte/
Þañ 7. Augusti/
Añō 1717.

Hønum Trwr/ Og Þig
Af Hiarta elskande allt
til Daudans.

Jon Thorkelsſon
Vidalin.

---

## Til Lesarans.

Ÿter þvi ad Vel-Edla og Vel-Eruverdugũ Herra Biskup enum/ Hr. Steine Jonssyne/ hefur naudsynlegrar Orsakar vegna þocknast/ad læta setia þær Citatiur sem a Spatiuñe stoodu i þeirre skrifudu Book/sem þesse er prentud epter/iñ i Predikanernar / Þa vil eg hafa Lesarañ hier med advaradañ / ad nær þessar Predikaner Opeñberlega Lesnar eru / þa skule hlaupa yfer Citatiurnar / so þær ecke Lesnar sieu. Citatiur eru ei giørdar til þess/ ad þær skule Lesast i eirnre Predikun / Þvi þær uppehallda Lesaranum/ og giøra Lestureñ længsamañ/ Helldur til þess/ ad hvør sem vill / kuñe ad siæ epter þvi sem Citerad er af Ritninguñe / og bera þad samañ / þegar hañ Les wtaf fyrer siælfañ sig. Þetta sijnest mier Naudsynlegt ad giefa uñ vid þa sem Lesa þessa Book.

Besal-

Befalande alla Lesendur og Heyrendur hier med/ Guds Heilags Anda Adstod og Upplijsingu. Og vil alltijd fikast epter Skylldu minne

Skalhollte/
Dag 9. Martij.
Año 1718.

Þeirra Viliugur Þienare
J øllu þvi sem mier er af
Guds Alfu tiltrwad.
I. Vidalin.

# Añar Formaale til Lesarans.

Hvert þad Landsplats/ Sem noog Vatn og Vøkva hefur / er hid feitasta og hid Rijkasta af Avøxtunum. Fyrer þeirre þurru Jørd hefur Akurmadureñ hid stærsta Erfide og margfallda Mædu / eñ lijteñ Avinning af heñe. Þar sem Guds Andleger Bruñar framfliooka/ verda Saalernar Avaxtarsamar og Gude þægelegar; Bruñur Vitskuñar er Ord hins Hæsta Guds/ og þad eilijfa Bodord er heñar Uppspretta/ Syrach. 1. Cap. Allt þad Vatn/ sem framreñur af þessum Bruñe/ er lifande Vatn/ þviad Guds Ord er Ande og Lijf / Ja / Ord þess eilijfa Lijfsens / Joh. 6. Af þessum Hialpradesens Bruñe uppausa Naudþyrstar Saaler Vatned med Fagnade/ Esa. 12. Þetta Huggunareñar Vatn framfliytur af þeirre Andlegu Jerusalem/ i allar Atter moot Austre og Vestre / Sumar og Vetur / Zach. 14. Vatned Bethesda var upphrært af Einglenum/ sem i þad nidur stie/ og hvør sem þar fyrst ur stie nidur i þad/ epter þess Hræring / vard heill af hverium hellst Siwkdoome / sem hañ var halldeñ / Joh. 5. Heilagur Ande hrærer Bruñ Gudlegra Orda/ fyrer Eingla Fridarens/ sem ad eru Utvalder Ordsens Þienarar a Jørduñe/ og laugar i honum siwk og saurug Mañaña Hiørtu / af hverium þeir Trwudu hafa alla Avaxtarseme til þeirra goodu Verkaña/ skiptande sierhverium epter þvi sem hañ vill/ 1. Cor. 12. Af hverium þeir eitneñ ødlast Heilbrygde Saalareñar og allra heñar Siwkdooma/ þviad hvørke Jurter nie Plaastur lækna

na þa/ helldur þitt Ord DRotteñ / Sem læknar alla Hlute/ Sap. 16. Þier kiemur nu fyrer Siooner / þu Christelege Leſare / Ein Ný Hwſs-Poſtilla/ Giørd og ſamañſkrifud af Vel-Edla/ Vel-Eruverdugum og Hálærdum Biſkupenum yfer Skalhollts Stifte / Mag. Jone Thorkelsſyne Vidalin, og af hønum tilſkrifud og dedicerud Guds Christne i þeſſu Lande / a hverrar Briooſtum hañ ſialfur i ſijnu merkelegu Skrife til heñar jatar ſig leiged hafa/ og eñ nu liggia / og ſo ad hun/ er hañ hefur aled/ ſkule ecke ſialf Þurrbrioſtud vera/ edur Skort lijda/ forſorgar hñ hana nu aptur med þeirre hreinu og Ofølſudu Mioolk Guds Orda/ af hverre hun ſkule eblaſt og Vpphallde hafa/ epter þad hun hefur ſmackad hvad DRotteñ er ſætur/ 1. Pet. 2. Eige þarf þeſſe Book med miñar Hrooſunar/ þvi hun ber ſialf med ſier / nær hun er Athugaſamlega leſeñ / ſiñ Lofſtijr. J heñe er veitt iñ til þijns Hiarta hreinum Vatnsreñum Gudlegra Kieñinga / hvøriar ſa Helvijtſke Holofernes kañ ecke ad upphøggva/ ſo ſem ſa Jardneſke giørde hia Borgeñe Bethulia/ fordum Daga / Jud. 7. J heñe ſier þu / Christeñ Leſare / wtflioota af þeirre Himneſku Hialprædeſins Hellu/ Guddoomlegar Hugganer/ til ad ſvala þier i Angiſt þijns Hiarta/ Pſalm. 119. J þeſſare Book virdeſt mier / þeir ſem fallner eru / Sieu med Guds Orde a Fætur reiſter: Þeir Vanmattugu ſtyrkter: Þeir Þverbrotnu Syndarar Gudlega amiñter og til Christelegra Dygda æſtijſter og uppvakter: Þeim ſem fyrer Daudanum liggia / vijſadur Vegureñ til Lijfſins: Og i einu Orde ad ſegia/ er þier/ þu goode Leſare/ kient allt þad ſem þig Naudſyniar um/ til þiñar eilijfrar Saluhialpar. Lat þar fyrer/ Vinſamlege Leſare/ þeſſa Book/ vera þitt Lioos og Leidarvijſer/ epter hverium þu geinger wr Egyptalande þeſſarar Veralldar / iñ i þad Himneſka Canaan. Eg vil med Audmiwkre Bæn/ epter miñe Skylldu/ ſtyrkia þig a þeſſare þiñe Vegferdar Reiſu/ og Daglega bidia/ ad Gud Myſkunſemdañ a hialpe þier og mier/ ſo i vorum Christeñdoome ad fram halda / ad vier aller verdum Samañſafnader til Guds Sonar hægre Handar a Efſta Deige / Og vil alltijd fiñaſt miñ Christeñ Brooder/ þiñ Einlægur Fyrerbidiare til Guds og Þienare.

are. Skrifad a Hoolum i Hialltadal/ þann 28. Aprilis Anno 1718.

Steinn Jonsson.
Sup. Hol. St.

## Bæn fyrer Predikun.

Þu Stoore Konungur allrar Veralldarennar / sem byr i þvi Lioose er eingenn fær tilkomest: Vier synduger Ormar skriid- um a þessare blessadre Stundu upp wr voru Dupte framm a Skør þinna Foota/ til ad Fridmælast vid þijna Guddoomleg- ga Nææegn/er vier med saurugum Verkum og Illgiørdum vorum so prælega moodgad høfum allt i fra Barnæsku vorre. Enn æ oss Drottenn/ vier erum so vanmegna under Byrde Syndanna / ad þegar vier gyrnunst ad lypta oss upp i Nædernar til þijn/ þa draga vor eigenn Saurende oss nidur aptur. Þu hefur ad sønnu fyrergiefed oss marg- ar Synder / og sparad oss midt i þeim allt a þennan Dag / Enn vort Hiarta skielfur i oss og kvijder vid þijnu strannga Riettlæte/ nær vier til þess hugsum/ Ad vier þverbrotnar Manneskiur høfum so Lanngsam- lega forsmæd þijna Myskunseme/og sialfer Onytt so marga Kvitkun vorra Synda / er vier þeiged høfum med þverwdarsamlegre Idkun sømu Glæpa og Illgiørda. Hvert skulum vier þa flija undann þinne Hende ? Þu uppfyller bæde Himenn og Jord / Enn þijn Myskun- seme er eins stoor og þu sialfur / Þinn hefur øllum þeim vel giefest sem hennar med bliwgu Hiarta og sundurknosudum Anda leitad hafa / og ef vier sem erum Neystræ / meigum ecke snerta þig sem ert eirn fortærande Elldur / þa leif oss ad skrijda ad Sonarens Foo- tum/sem er Holld af voru Hollde/ og þvo þær i Tærum vorrar Yd- ranar. Enn æ vor Gud / Vier vitum ad hann er i Heimenn komenn til ad lækna þad sem kramed er. Hvad kann þad oss ad gagna ef vort Hiarta er heillt ? Ef þad er hardara enn nockur Steirn ? Þvi Grætbænum vier þig / fyrer hanns dijru Kvøl og Bloodugar Under: Slaa þu O Herra a þennann harda Klett med Moyses Sprota/ so ad

Vatns-

Vatns-Straumarner/ ja/ eitt brennande Vatnsflood meige sprecka þar wt af/til ad þvo vorar Ohreinar Samvitskur. Lat eirn glooande Anda brenna upp allt Sorp annarlegra þanka wr voru Hiarta/ sem er þitt Mustere/so þyn Ord fae Rwm þar inne. Lat oss ecke heyra þad so i Dag/ad þad fordæme oss a sydarsta Deige/ helldur gief ad þad verde Epterlæte Saalna vorra: Lat þess Sætleika burtdryfa allt Toomlæte og Sæleyse fra oss/ so vier vardveitum þad i goodu og sidsømu Hiarta. Þess bidium vier þig fyrer JEsum Christum þinn Son med hans eigenn Bæn / seigiande: Fader vor/ etc.

## Bæn epter Predikun.

Þu Hæleika Guddoomsens Prenning/ Eirn Gud og Sannur fra Eilyfd til Eilyfdar. Vier aumer Syndarar liggium hier flater fyrer Auglite þinnar Hatignar/til ad offra þier Packlæte vors Muns fyrer þynar Owtseigianlegar Velgiørder/ er þyn millda Orlætes Hønd oss Opacklatum og Þverbrotnum Manneskium audsynt hefur/ bæde i Andlegan og Lykamlegan Mata: Enn æ oss Drottenn/vier erum so kallder i Bænenne/ad vier Ottast meigum/ad þu vilier styrpa oss wt af þynum Munne/nema þu vermer vor Hiørtu. O Vor Gud/ lat þinn gooda Anda / bidia asamt vorum Anda / med Ounnrædelegum Andvørpunum / so ad þier lyka mætte Foorn Vara vorra fyrer JEsum Christum. Vier þackum þinne Guddoomlegre Elsku fyrer þitt H. Ord / og þau Hæleiku Sacramenta/ a hverium þu foostrad hefur og nært vorar Sæler/ad ei skylldum vier wtaf sofna i Daudanum. O vor Gud/ lat vorar illar Athafner / vort Sæleyse og Opacklæte/ alldrei þvi vallda/ ad þu svipter oss þessare Himneskre Gaafu.

Gief ad þitt Ord/sem vier i Dag høfum heyrt ꝛ numed/meige bloomgast i Hiørtum vorum/so þad fære þann Avøxt er syne sig/ bæde i Ordum ꝛ Verkum/so þitt Hæleika Nafn vegsamest i oss/hveria þu virdest ad nefna þitt Foolk og Eigenndoom. O Drottenn/vort Hiarta er þitt epter Riettre Skopunarennar/Endurlausnarennar ꝛ Helgunarennar/ þad er þyn Kyrkia / enn Heimurenn / vort Holld / og Diøfullenn

gyrnest

gyrnest ad festa sitt Foot þar iñe / og æ þvi verr / ad þad kekse þeim framar/ eñ vier girnast villdum: O vor Gud/ yferfall þou med þiñe Magt/ og tak þyna Eign af þeirra Hende/ so ad þyner Ovuner brÿtle ecke þÿnum Hiar-Flockum. Þu Vollduge Konungur / sem ert Sterkur og Mattkugur i Strÿde/ lat hiñ Guddoomlega Krapt þiña Heiløgu Orda verda so rÿkañ i Hiørtum vorum / ad oss velge vid Syndeñe/ so sem añare Opekt. Gief þu ad Miñing hiña fornu Glæpaña verde oss so skielfeleg/ ad oss hrylle vid þeim/ so sem añare Ofreskiu. Gief oss ad kenna vor Hiørtu/ vora Tungu og Eyru a þad sem a ad vera sÿdañ vor ædsta Glede og Epterlæte i Dÿrd Himnaña/ sem er þÿn Elska/ þÿn Jhugan/ þÿn Lofgiørd og Þacklæte fyrer þÿnar Guddoomlegar Dasemder a medal vor / og veit ad vjer leggium hid mesta Kapp a/ ad framkvæma þad i Verkunum/ sem vier þeinkium i Hiartanu/ tølum med Muñenum og heyrum med Eyrunum/ ad ei gaungum vier i þeirre Blindne/ ad hafa Skin Gudhrædslu-uñar/ eñ afneita heñar Krapte.

O þu Stoore Konungur Himens og Jardar/ vardveittu hiñ Smurda/ vorn Allra-Nadugasta Arfa Herra og Konung/ Hañs Nyfæddu Drottningu/ og vorn Naduga Arfa Printz/ og allt þad Konunglega Hws. Vertu Konungsens Skiølldur og Sool/ og eitt orugt Vÿge a moote øllum Hañs Ovinum. Lat Hans Rÿkesstioorn farsæla verda/ og gief Hønum langa Lÿfdaga: Umgyrd Hans Tignar-Stool med Hersveitum þiña Vollduga Eingla: Gief Konungenum Hlÿdna / Trwa/ Drugga / og Radholla Undersata: Lat Hañ so stioorna i þÿnu Umbode hier a Jørduñe / ad Hañ meige Eilÿflega med þier rÿkia i Himmenum. O HErra JEsu Christe/ þu sem ert hiñ mikle Hyrder Saudaña / fyrer Blood þess Eilÿfa Testamentes / vardveittu Kieñendur Ordsens þÿna Þienara/ lat þa alldrei gleyma þvi/ ad þeir eiga þier Reikning ad standa / fyrer þitt Dÿra Blood / med hveriu ad Endurkeyptar eru þær Hiarder/ er þu hefur sett þa yfer/ eñ vert þeirra Vernd og Forsvar/ a moote Ogudlegum og Ohlutvøndum Møñum / nær þeir giøra Verk siñar Kallanar trwlega: Og trod Andskotañ under þeirra Fætur. Vor Gud stioorna þu Valld-

ſkiekkeñe/ og þeim er i Doomunum ſitia / Vpplyſs Hiørku þeirra / ad þeir ſkilie Riettteñ/og gief þeim Vilſku til ad Dœma þitt foolk/med Vilia og Aſtundan ad giøra þar epter. Tak ad þier O Gud Hwsſtioornar Ekieltena / Lat øll Egta-Hioon Elſkaſt Iñbyrdis i Falslauſum Kiœrleika/og uppala ſijn Børn og Hiw i Aga og Vm-vøndun til DRottens / Eñ Børnum og Hiwum hlijdeñ og audſveip Hiørku/ ad þau ſieu Forelldrum og Hwſsbœndum undergiefeñ i øllu þvi er þeim epter Guds Orde og Lagaña Skylldu tilſagt verdur.

O DRotteñ aumaſt þu alla þa ſem Naudſtadder eru/og bera þijns Sonar Kroſſ a Herdum ſier / Vœg þeim vor Gud fyrer hañs Skulld ſem lided hefur/uppa þad / hañ kyñe ad hiœlpa þeim ſem freiſtadur er. Vm̃ alla Hlute fram̃ Grœtbœnum vier þig Himneſke Fader / Forlœt oſſ vorar Bloodugar Illgiørder og Synder/fyrer IEſu Chriſti ſœru Kvøl og Pijnu. Miñiſt þeſſ / ad hañ fyrer oſſ i Daudañ er utgiefeñ af þiñe Guddoomlegre Elſku / þegar vier eñ þa vorum þijner Oviner. Virdſtu þar fyrer ad gleyma vorũ Yferkrodſlum / fyrer hvøriar hañ Fullnœgiu giørt hefur / Þar vier fyrer hañ og i hønum erum Børn ordner / Og nær vør Æfe er ad Þrotum komeñ vor Gud/og vier liggiũ fyrer Daudañs Porte/horfande fram̃ a Veg allrar Veralldar/ Riett oſſ þa þijna Milldu Hønd vor Gud/ og lœt oſſ deya med vorn Endurlauſnara i Fadmenum / ſo vier meigum Eileijflega med þier og hønum lifa. Bœnheyr þetta Nœduge Gud og Fader fyrer IEſum Chriſtum / I hverium allar vorar Bœner eru Ia og AMEN.



# Fyrsta Sunnudag i Adventu Gudspialled skrifar Matthæus i 21. Capitula.

I Þann Tyma. Og þa er þeir koomu ad nælgast Jerusalem / og komu til Bethphage vid Fialled Oliveti / wko sende JEsus Tvo syna Læresveina / z sagde til þeirra: Fared þid i þad Kaupkun sem gagnvart ydur er / og strax munud þid finna Øsnu bundna og Folann hiaa henne / leysed hana og leided til myn. Og ef einhver seiger nockud til yckar / þa seiged / þad HErrann hafe þeirra Þørf / og jafnsnart mun hann lata þaug laus. Enn þad skiede so / ad upp fylltest hvad sagt er fyrer Spamannenn / er so seiger: Seiged Dotturenne Zion / Sia / þinn Kongur kiemur til þyn hoogvær / sitiande a Øsnu / og a Fola klifbærrar Øsnu. Enn Læresveinarner geingu i burtu / og giørdu so sem JEsus baud þeim / og leiddu med sier Øsnuna og Folann / og løgdu syn Klæde yfer þaug / og settu hann þar uppa. Enn margt Folk breidde syn Klæde a Veigenn. Og adrer hiuggu Kvistu af Triaanum / og dreifdu þeim a Veigenn. Enn þad Folked sem fyrer þeim gieck / og Epterfylgde / kallade og sagde: Hosianna Syne Davids / Blessadur sie sa sem kiemur i Nafne DROTTens / Hosianna i hædstum Hædum.

## Exordium.

EPistlenum til Phil. 2. Kiemst heilagur Paulus þañ ad Orde. Vered eins Lynder og JEsus Christus / hvør þoott hañ være Guds Mynd / hiellt hañ þad ecke fyrer Herfang ad hañ Gude jafn var / helldur lytelæckade hañ sialfañ sig / takande a sig Þræls Mind / og orden Mønñum lykur. Postulen seiger / Hañ hafe þad ecke fyrer Herfang reiknad / þoott hañ Gude jafn være. Þeir ed Herfang teked hafa / stæra sig þar af / brwka þad til Yferlætis / giøra þar af forkostuleg Sigurmerke / breita vid þa Herleiddu sem þeim lykar: So þad var Mælshattur hia Grickium / ad hallda þañ Hlut fyrer Herfang / er einhvør brwkade Rykmañlega. JEsus brwkade ecke þañveg Guds Mind / þoott hañ være alls Raadande / bæde a Himne og Jørdu / Matth. 28. Samt hafde hñ ecke Valld sitt vid yfer aumum Mañeskium / hveriar hañ var komeñ ad Endurleysa af Myrkrañs Vallde / helldur giørdest þeim lykur / ja / þeim undergiefeñ / þolde Mootmæle og allskonar Hadungar af Synderunum / er hañ med Audmiukt / [?] Endurkeypte wr Syndarenar Þrældoome / og hiellt ecke Guds Mynd Herfang ad vera / so hañ med sine Þioons Mynd / feinge Herleidinguna ad Herfange teked / Ps. 68. Eñ afklædt hiñ sterka Hervopnada Diøful sine Harneskiu / Luc. 11. og med Hleckium Myrkrañs fiøtrad / 2. Pet. 2. Þegar Satan took vora Fyrstu Foreldra til Fanga i Paradis / og i þeim alla þeirra Epterkomendur / þa talde hañ þeim Trw um þad / ad ef þau æte af Eplenu / mundu þau Gude lyk verda / Gen. 3. Eñ þau hlyddust a hañs Slægvarþullar Fortølur / týndu þvi Guds Mynd / eñ giørdust Fiandanum lyk / hverium þau framar hlyddu eñ Gude / og fyrer þetta Raan Guds Myndar / took JEsus uppa sig Þioons Mynd / og hiellt þad ecke so sem Raan edur Herfang þoott hañ Gude jafn være. Eñ þoott ad vor Frelsare ecke brwkade syna Almættis Tign i Mañdoomenum / medañ hañs Lægingar Tyme yferstood hier a Jørduñe / þa hefur hañ samt eitt añad Ryke af Gude og Fødur / sem er hañs volldug Stioornan i Christelegre Kyrkiu med Ordenu og Sacramentunum: Þar um talar so David under Guds Persoonu. Eg hefe smurt miñ Kooung og sett hañ yfer mitt heilaga Fiall Zion / Ps. 2. Eñ þoott ad Guds Ryke kome ecke þañveg / ad þad adgiætt verde / so sem Herrañ seiger / Luc. 17. þa siaum vier þo nockra Lyking þess edur Skugga i þessa heilaga Dags Evangelio / þar ed JEsus rydur iñ til Jerusalem so sem eirn Koonungur / ecke einasta til ad uppfylla Spaadoom Zachariæ / hvørs hier gieted verdur i Gudspiallenu / og þañ[?] hlioodar / Zach. 9. Seiged Dootturene Zion: Sia þiñ Kongur kiemur til þyn hoogvær / sitiande a Øsnu og a Fola Klifbærrar Øsnu. Helldur til þess ad aforka og wtvega syna Christelega Kyrkiu / sem er eitt Rauglegur Riddermañskapur / og þad med synu eigen Bloode / hvat um Esajas spaer Cap. 62. a þeñañ Hatt. Siaed / DRottiñ hroopar allt til Enda Jardarenar / Seiged Dootturene Zion / sia þitt Hialpræde kiemur. Og sökum þess / Børn myn / ad þetta Hroop hefur og heyrst til vor / sem ad buum a Enda Verallddarenar / og oss verdur asamt ødrum þetta Hialpræde bodad / Þa lætum oss af þessu heilaga Evangelio yfervega i þetta Siñ / hvílykum

ad

ad þessa Konungs Vndersꜳtum byrie ad vera. Gud Fader Myskunsemdanna giefe
oss Nꜳd sÿna þar til / fyrer JEsum Christum / AMEN.

## Vtleggingen.

HEir munu ecke aller sem ad til mÿn seigia / HErra HErra / Iñ
ganga i Guds Rÿke / seiger JEsus Matth. 7. helldur þeir sm̃
giøra Vilia mÿns Fødurs sm̃ a Himnum er. Marger munu þr
vera i Safnade Christs hier a Jørdune / sem eins eru lynder og Jud-
ar fordum Daga / er søgdu / Vier vilium ecke lꜳta þeñañ drottna yfer
oss / Luc, 19. þo er Christur allra þessara Konungur / þvi aller vill hñ
ad holpner verde / og komest til Sañleiksins Vidurkieñingar / 1. Tim.
2. Eñ so sem þad / ad eirn Konungur / hañ er Konungur bæde þess er
hañ lætur under Exe draga vegna Glæpa siña / so sm̃ hiñs er hñ set
ur sier a hægra Veg / So eru og bæde Vonder og Gooder i Christi
Rÿke / og hañ drottnar eins vel yfer þeim / til hverra hañ vill seigia a
Efsta Deige / Fared fra mier aller Illgiørda Meñ / Matth. 7. So
vel sem hinum / er hañ kvedur þessum Ordum / Komed blessader mÿns
Fødurs / og eignest þad Rÿked sem ydur er fyrerbwed i fra Vpphafe
Veralldar / Matth. 25. jafnvel þott ecke lꜳte þesser hverutveggiu
sier eins stioorna af Anda DRottens. Hvad byriar oss þa hier um̃
ad þeinkia Guds Børn? Eg meina ad lꜳta oss um̃hugad vera / ad
lwka þessũ Konunge Skylldur þær sem hñ af oss heimter / og er sw
helldsta / ein audmiuk Hlÿdne. JEsus baud sÿnum Læresveinum / ad
fara i þad Kauptun sem gagnvart þeim var / þar mundu þeir fiña
Asnu bundna og Fola hia heñe / þau skipade hañ ad leysa og leida til
sÿn. Þeim hefde mꜳtt til Hugar koma / ad ei være Skipun þesse svar
leg / þeir mundu Armæsu mæta / ef þeir tæke svo añara Maña Eigur
O-adspurt / eñ þr fꜳst ecke um̃ þad / helldur giøra sem þm̃ boded var.
Giør slÿkt hid sama Christeñ Madur / lꜳt einskis Bod edur Bañ vera
þier jafnskylldt sm̃ þÿns Guds / Hlÿdne er betre eñ Offur seiger Ande
DRottens. 1. Sam. 15. Heyr hvad hiñ Eingietne Sonur Guds seig
er / þegar hañ inñkiemur i Heimeñ / Psalm. 40. Offur og Fornfæring
ar þocknast þier ecke / Eñ mÿn Eyru hefur þu i giegnum stunged /

Bresiforner og Synda Offur villtu ecke/ þa sagda eg/ Sia eg kiem/ i Bokenne er skrifad af mier/ þinn Vilia minn Gud giøre eg giarna. Hver Davids Ord S. Pall til Hebr. 10. heimfærer uppa vorn Endurlausnara. Hafe nu hinn eingietne Sonur Fødursins/ vered hønum so hlijdenn/ hver þo med sinne Forþienustu hefur sialfum sier eckert forþienad/ hvad miklu framar ætter þu Gude ad hlijdnast/ sem hønum ecke einasta Sal z Lijf skylldugur ert/ helldur z þar ad auke Ofal tiju þusund Punda/ Matth. 18. og þau so mørg/ ad þu alldrei fær hem loked þann sijdarsta Pening/ ef hinn Stoore Konungur Himens z Jardar vill Reikning hallda? Hvad þa Christenn Madur? Muntu ecke umm alla Hlute framm skylldur hønum ad hlijdnast/ sem fyrer þig hefur allt þetta golldt/ so Gud hefur uppgiefed alla Skulldena/ ad ecke yrde þier kast ad i hin ystu Myrkur/ enn straffad hann sem var hreinn z heilagur/ z fraskilenn Syndurunum? Hebr. 7. Ja/ hann hefur hans Eyru i giegnum grafed/ eins og Þræls þess er ecke villde laus verda a Fagnadar Arenu / Exod. 21. hvørn hans Hwsbonde mætte festa a Eyranu vid sinn Dyrastaf/ ad hann være hans Þræll upp þadann Æfenlega. Muntu neita hønum þinnar Þienustu/ er þvilijka Smann hefur lided þier til Frelsis/ þar þo Christi Þræll ad vera/ er einkomis Frelse/ og hans Þienusta/ er øllu Heckadæme ædre. So þad er sannkveded/ er sa Guds Mad ur orte fordum. Kong minn JEsu eg kalla þig/ kalla þu Þræl þinn apt ur mig/ Herratign aungva ad Heimsins Sid/ helld eg þar meiga jafn ast vid. Þvi seiger og Paulus/ Rom. 8. Þier hafed og ecke medtekid Þrælkunar Anda aptur til Hrædslu/ helldur hafed þier medteked Arfleidslunnar Anda/ fyrer hvørn vier kollum Abba Fader/ Rom. 8. Enn ef vier Børn erum / þa erum vier og Erfingiar / ja / Erfingiar Guds og Samarfar Christi/ Rom. 8. Enn seiged mier/ Hvad munu øll Rijke Veralldarennar vera ad reikna vid þad / ad eiga Arfskipte vid hann/ sem Gud ecke alleina hefur giefed Endemørk Veralldarennar til Arfleifdar/ Psalm. 2. helldur og sett hann sier til hægre Handar/ Psalm. 110. og mun leggia alla Ovine hans til Footskarar hønum/ 1. Cor. 15. O hvørsu blind er þa Manneskiann? Menn leggia allt Kapp

a ad kemast i Tigeña Maña Pienustu / hvar po kju Pioona fyrer eins Lucku a stundum/ so margur ma Pioona leinge adur eñ hñ kiemst til Þess sm̃ Þo er i sialfu sier ecke añad eñ Prældoomur/og i giegnum mikeñ Prældom bryst Fævitska Mañsins til añars meira/hvar Þ gein gur optlega miog Andhælis til/so ad Þeir sem dyggvaster vered hafa z Drottens-hollaster/Þeir fa hina vestu Vtreid a stundū/ eñ Þr eru i Nævegum er a Svikrædū sitia/ Eñ ad gioraft Nyrdmadur Christi/ skeika faer uñ/jafnvel Þoott hñs Pioonusta stande ollum til Boda/ Þar er ei Gydingur nie Grickur/ecke Præll nie Frelsinge/ei Rijkur nie Fatækur/ei Vijs nie Vankuñande frasktileñ/helldr eru Þar aller eitt i Christo IEsu/Gal. 3. Eñ Þess er ad giæta/ Born mijn/ad sa sm̃ vill ganga Christo til Handa / hañ skal ecke kyñskipta Hiarta sijnu/ helldur giefa honum Þad allt. Ecke seige eg Þad/ad hvor eirn skule ei Piona i Þeirre Kallan/hvar til hñ er kalladur/eda Vndergiefeñ skule i Vndergiefeñ vera/ Þvi sa sm̃ giører Verk siñar Kallanar/hñ Pion ar Christo sm̃ Þad hefur boded/ hañ sem Yfervalldenu hlijdnast/ hañ giører og Christi Skipan/ er sagt hefur: Giefed Keysaranum hvad Keysarañs er / Matth. 22. og hañ sem leitar Næringar siñar med ærlegu Erfvide/hñ hlijder honū er Þad Bodord gaf/ J Sveita Þijns Andlitis skalltu Þijns Brauds neita/ Gen. 3. Nitt seige eg / ad sa sem vill Þessa Konungs Þegn vera/ hañ leite fyrst Guds Rijkis / og hñs Riettlætis/Matth 6. og meke eckert af Þessu jafnframt honū/ miklu sijdur hlijde añara Bode edur Forkolum meir eñ hañs. Seiged mier / hefur ei Gud boded ad Forelldrana skyllde heidra hvad mest af Mosum/ og lagt Bolvan vid/ ef nockur Þa vanheidrar/Devt. 27. Eñ Þo seiger IEsus/Sa sem Elskar Fodur edur Moodur/framar mier/ hañ er mijn ecke verdugur/ Matth. 10. Gud hefur skipad/ ad Madureñ skyllde yfergiefa Fodur z Moodur/z samteingiast siñe Egta-Kvinu / Gen. 2. Eñ hvad seiger Moyses hier uñ? Devt. 13. Ef Þiñ Brooder/ Sonur Moodur Þiñar / Edur Sonur Þiñ/ edur Doot er Þijn/edur Þijn Eigeñ-Kona/sm̃ hvijler i Þijnu Skaute/ edur Vinur Þiñ/sa sem er eins og Þu/vilia locka Þig/seigiande: Lat-

um oss fara og dyrka akiarlega Gude/ þa skalltu drepa hn̄/ þyn Hønd skal vera fyrst a moote honum/ til ad deyda han̄/ og sydan̄ alls Israels. Nu kynne Einhvorium i Hug ad fliuga / hvilijker skulu þa Christs Þegnar vera? Meiga hønn̄ ecke þiona nema Syndlauser z Heilager Men̄? þ em eg ecke/ z get ecke vered/ a medan̄ eg life i Holld enu/ þvi eg em Daudlegur Madur/ under Syndena selldur/ Rom. 7. Og þegar eg vil giøra hid Gooda/ þa loder þ Vonda vid mig: Hvad skal eg hier til seigia: Þo eg sie skylldur Christo ad þiona af øllu Hiarta/ þa get eg þad ecke/ þvi þad Gooda sem eg vil giøra/ þad giøre eg ecke/ en̄ þad Vonda sem eg vil ecke giøra/ þ giøre eg. Neyr Christen̄ Madur/ Guds Sonur er i Heimen̄ komen̄ til þess/ ad kalla Synduga/ en̄ ecke Riettlaata til Ydranar/ Matth. 9. Være Von a þvi/ ad vier giætum fullnægt Guds Logmaale / þa være Christs Forþienusta oss Onaudsynleg. En̄ ecke hefur Gud sent han̄ i Heimen̄ til þess/ ad vier mættum̄ þess Ohulltar syndga/ ecke yfergnæfer hn̄s Nad i Christo þar til/ ad vier skulum i Syndunum lifa/ Rom. 6. helldur hefur han̄ þar fyrer lided Kvøl og Dauda/ ad han̄ visse/ ad vier mundum̄ med Syndenne Guds Nad og Vingan opklega af oss brioka. Þar fyrer seiger Johan̄es 1. Pistl. 2. Børn myn / Þetta skrifa eg ydur til / ad þier syndgest ecke / en̄ ef nockur syndgar/ þa høfum vier Tals-Man̄en̄ hia Fødurnum JEsum Christum hin̄ Riettlaata. En̄ giæted þess Christner Men̄/ ad Synden̄ er marghaattud. Þar eru Synder s̄ verda ad Ovilia/ z af Faavitsku/ um̄ hvoriar Guds Logmaal so talar/ Num. 15. Ef nockur Saala syndgast Ovitande/ þa skal hun Foornfæra Ars gamalle Geit fyrer Syndena/ þvilijk var Synd Paals/ er hn̄ Offsookte Guds Sofnud/ fyrer þvi seiger hn̄: eg hefe Myskun hloted/ af þvi eg giørde þad Ovitande i Vantrw/ 1. Tim. 1. Item Abimelechs/ er hugde ad taka Saram Abrahams Hustru Frillu-take/ z visse ecke ad hun var hn̄s eigen̄ Kona. Gen. 20. Adrar skie af Bradrꝛde einu/ þa Man̄ eskian̄ s̄m er hneigd til hins vonda/ giefur sier ecke Stunder til ad laata Guds Anda edur Skynsemena vid sig rada/ so s̄m þegar Moises sloo Helluna tvisvar/ Num. 20. Þegar David hiet ad farga Nabal/ og

øllu

ollu Kallkins i hans Nwſe/1.Sam.25. Þegar hañ Foolked talde/2.Sam.24. Og þad er þad ſm̃ Paulus kallar/ Gal.6. ad verda yferſtijgeñ af einhvørre Nrøſun. Nockrar verda og af Mañlegū Breyſkleika/hvør ad jafnvel Guds Børnū fylger/æ ſo leinge þau bera epter ſier þeñañ daudlega Lijkama/z þ eru þr Giørningar ſyndugs Mañs/ſem Nollded og Andeñ eru ad glijma um̃ / og giefa alldrei ſætt ſt þar uppa/ þviad hvørt ſtrijder a mote ødru/Gal.5.og þar fædaſt þegar Andeñ lætur ſigraſt af Nolldenū/og verda hier imſer ůnder/ þvi verr/ad ſu Synd ſem i oſſ bijr/hveria Poſtuleñ Nolld nefner/ Gal. 5. hun verdur opflega ſterkare. Þetta verda a ſtundum þwngar Synder/og ſierdeilis Guds Børnū nærre Obærelegar/ Eñ þo reiknar Gud þær ecke Endurfæddū Mañe til Dauda/ þegar þær med hreinre z alvarlegre Ydran fyrer Lauſnarans Fortþienuſtu bættar verda. Hvar fyrer z þvi þar er eingeñ Fordæming hia þm̃/ſm̃ eru i Chriſto JEſu/þeim ſem ecke epter Nolldenu ganga/helldur epter Andanum/Rom.8. Eñ þr kallaſt ecke ad ganga epter Nolldenū/ſm̃ med Andanū leitaſt vid ad deyda Nolldſins Gyrnder/ jafnvel þott tilbere ad þ fæe Yfer-Nønd/allt ſo leinge Meñ giefa þvi ecke Taum/þad Meñ þione þvi i þeſſ Gyrndum.Og þvi ſeiger David Pſalm.19. Hvør ſkilur hvad opt hñ villeſt/afleis mig af mijnum heimuglegum Syndum/og hallt Þræle þijnum apkur fra Þvermoodſkuñe/ad þær drottne ecke i mier/þa mun eg heill verda. Nu eru þar adrar Synder/ ſem Madureñ ecke einaſta giører med fullū Aſetninge/ um̃ hvertar DRottiñ talar/ Num. 15. Su Sal er drijger Syndena med uppriettre Nende(þad er med ſeſettu Raade)hun vanvirder DRottiñ/þvi hun forackſade hñs Ord/z Onijtte hñs Bod/helldur og læta þeir Syndena drottna i ſijnū daudlegū Lijkama/fyrer utañ alla Varatku a mote heñe/og lia Limu ſijna heñe til Vopna/ hvør hun brwkar med Sialfſkylldu Andſkotanū til Þioonuſtu/eñ Drottne til Styggdar/ ſo ſem eirn Nandverks-Mad ur ſitt Verkfære. Þeſſer eru þeir/er JEſus kallar Þræla Syndareñ ar/Joh.8.Og þañ veg eiga ad ſkiliaſt Ord Joh.1.Ep.3.er hñ ſeiger/ad ſa ſm̃ drijger Syndena/hñ ſie af Dioflenū.Nū Agiarne þeim

er ecke um anad/en hvernig hn meige fylla sitt Nws af anars Sveita med Rietku og Raungu. Pioofuren/sm er hns Stall-Broder/hygg-ur ad/ Baken og Sofen/ hvernig han stela meige. Nin Dramblaate penur sig wt sem anad Laarberta Trie / Psalm. 37. Nan nytur ei Svefns nie Matar/ef einhvør han virder mina/ en hns Potte bjod-ur. Nin Metorda giarne sparar aungva Illmensku til pess ad tilla sier upp i Virdingarnar. Joab sveifst ecke ad taka Lyfed af Abner og Amasa/og po med Flærd og Svikum/ til pess ad hn sie Ohultur um Nafnbætur synar. Nin Ofundsiwke etur sitt eiged Niarta. Nns Orm ur sofnar ecke ef hn sier ad nockru geingur vel/hn eyrer aungvu nema einhvør steike sig/z hefur aungva Skiemtan nema af anara Oluecku. Nin Bakmaaluge fiskar i anara Avirdingu/ hn leitar smaasmuglega epter pvi sm ødrum yfersiest/ han peinker sig um/ hvørnen han fæe einhvoriu par lyklega vidauked/og giører tyu Pund af einu/pvi sem Andskoten hefur hm i Nendur feinged. Ligaren spinur sitt Verk af syni eigen Ydrum eins og Konguloon/ og brykur Neilan til ad kosta pvi upp/s alldrei er Tilhafed. Nin Flaaraade grefur eina Grof Bake brotnu til ad steipa hinum Einfallda par i. Allt petta vina pr ed so eru lynder med Astundan / fyrer utan allan Guds Otta/ edur nockra Mootstødu i giegn Andskotans/ Neimsins og Holldsins Vielu. Pess er laata Syndena drottna i synum daudlegu Lykama. Og petta er su Hvermoodskan er David bidur Gud ad halda sier aptur fra/ Ps. 19. Ad sønu er pad satt/ad Guds Sonur er fyrer pessar Synder dæen/ pvi hn er Forlykun fyrer allar Veralldarenar Synder/ 1. Joh. 2 hvad z audsied er af Dæme Manassis Konungs/2. Par. 33. hin" Bersynd ugu/Luc. 7. Ræningans/Luc. 23. z anara laangtu fleire. Po er nærsta hætt vid pvi/ Brædur myner/ ad slyk Ydne Syndana sem Maduren kemur sier aan allrar Ydranar/aan alls Otta p Guds straungu Noot unu/ aan alls Asetnings til Apturhvarfs / edur og med hiegoomlegre Raadagiord/ad ætla sier pa ad ydrast/pegar oss gott piker/sm kanskie seint pike/edur pegar oss Synden leid verdur/ er maaskie alldrei verde/ ad pesse Ydia og indrucken Vane til syndsamlegs Athæfis / meige

snwast

snwast upp i fraleitt Sidie/ Rom. 1. upp i forbrestda Samvitsku/ 1. Tim. 4. um̄ hvorria Paulus talar/ Ephes. 4. Ad þeir gange i Niegoma sijns Hugskots formyrkvader i Nuxunū/ fraskilder Lijfe Guds/ fyrer þ Þeckingarleyse sm̄ i þm̄ er/ sokū Hardwdar fra Hiarta/ hvor ler þa þeir hefdu misst alla Tilsiñing/ gæfu þr sig til Lausungar/ ad fremia allaā Ohreinleik med Agyrne / so sem voru Pharao/ Judas / Acithophel/ og þr adrer sm̄ Postulen kallar Stalfdamda/ Tit. 3 Eā þad seige eg i Guds Stad/ og i Vm̄bode hns Eingietens Sonar JEsu Christi mijns Herra / hvort eg a Hende hefe / ad jafnvel þott ad Nædeā yfergnæfe Syndèna / þa er sa aungvanveigeā Konungsins Christi riettur Þegn/ nie sañur Limur hn̄s Kyrkiu/ er vijsvitande og ydrunarlaust fram̄fer i Syndū og Glæpū / med þvi Moke sem ædur hefe eg sagt: Þvi Guds Sonur er til þess i Heimen komen/ ad kalla Synduga til Ydranar/ Matth. 9. eū ecke til þess ad þeir skule syndga uppa Nadena/ til þss ad Meñ skijrest i hn̄s Nafne til Ydranar/ Act. 2. eū ecke til Athugaleysis nie Vndañdrættar / til þss ad þiona hm̄ i Endurnijungu Lijfdagaña/ eū ecke til þss ad giefa Dioflenū hiñ mesta Hluta þra/ eū ætla Gude hiñ sijdarsta Part Æfeñar/ sm̄ eingeū veit nær þrijtur. Eg veit ad þr sm̄ komu um̄ elleftu Stund i Vijngardeū/ feingu jafnt vid hina/ sem bored hefdu Hita og Þwnga Dagsins / Matth. 20. eū þu hefur kalladur vered um̄ siøttu og nijundu Stund/ hvad veitstu af þvi ad þu muner ná hiñe elleftu/ muntu kuña Gud ꝥ þ/ þott hn̄ læte þig hafa jafnañ Hluk med þm̄ til hvørra sagt var: Eingeū þra Maña sm̄ bodner voru munu smacka mijna Kvølldmæl tijd/ Luc. 14. Villtu heimta þ af Konunge Himens z Jardr / þu s ecke ert einasta Molld z Aska/ helldr Landrædū sekr vid hiñ lifanda Gud/ ad hn̄ liete kvelta siñ eingieteū Son til þss/ ad þu þss tryggvar mætter i allre Ohæfu þiona Fiandanū/ hvør ad er Guds svareū Ovinur. Er þ ecke noog ad hn̄ hefur læted grepktra þig fyrer Skijrnena med Christo til Daudaū (þ er til ad deya Syndeñe) so ad lijka sm̄ Christur er uppvakeū fra Daudū fyrer Dijrd Fodursins/ so kuñer þu ad ganga i Endurnijungu Lijfdagaña. Reined þar fyrer Christner Meñ/ hvørt

C 2 þier

þier erud i Trwke/ 2. Cor. 13. hvada Lijst þier hafed til goodra Verka/ hvørn Leida a Syndena/ og ef þier finned Brest a slyku/ þa giæted ad ydur i JEsu Nafne/ forsmæed ecke Rykdoom hans Polenmædis z Langlundargieds/ helldur giæted þar ad/ ad hans Giædska leider til Ydranar / so ad þier ecke safned ydur Reide a Dag Reidenar / og Guds Riettlætis Doms/ Rom. 2. hvør Eyru hefur ad heyra hann heyre þad/ og bidie Fødur Liooſana/ fra hvørium ad kiemur øll good Giøf/ og øll fullkomen Giøf / Jac. 1. ad giefa sier Ydran til Sannleikſins Þeckingar. JEsu Læresveinar løgdu Klæde syn yfer Osnuna/ og settu hann þar uppa/ Fra Dæme fylgde Folked/ er breidde syn Klæde a Veigenn. An alls Efa hefur þessu til Nugar komed/ ad JEsus munde i þ Sinn ætla ad upprietta hid iardneska Jsraels Ryke/ þvi þ var Nætt ur Gydinga ad breida þanenn vid þa sm nylega høfdu Slioorn teked / hvad sia mæ af 2. Reg. 9. Þegar Spamannſins Þienare hafde smurt Jehu til Konungs/ þa breidde hvør af hans Herra Þienurum sitt Klæde under hann a þad hædsta af Trøppunum/ og søgdu: Jehu ryker. Og þo nu ad bæde Læresveinarner og Folked/ villtust i þessu/ þa er þ samt skied af Drottne/ til ad teikna þar med hans Konungs Tign/ hvørn Gud Fader hefur smurt yfer sitt heilaga Fiall/ Psalm. 2. En giæt ad þvi Christenn Madur/ ad þesse Konungur Dyrdarenar ryður hvørn Dag inn til sinnar Borgar/ sm er Christeleg Kyrkia/ og so sm hann er einn andlegur Konungur/ so og er hans Ryke andlegt/ þviad Vopn Herfarar vorrar eru ecke lykamleg seiger Paulus/ 2. Cor. 10. helldur Krapftur Guds til ad nidurbriota Gyrdingarnar. Hann kiemur til vor i Ordenu z Sacramentunum/ i Krapte syns Heilaga Anda / s straffar i Mannenum Syndena/ uppvekur Ydranena/ efler Trwna/ kveiker Elskuna til Guds/ innræter Kiærleikann til Naungans/ verkar Polinmædena. Þeg" þu Christenn Madur/ finnur i Hiarta þinu nockrar þss hættar Hræringar/ þa vit þad/ ad sa Drottnarenn er þar komenn til syns Musteris/ sm Malachias um spaer/ Cap. 3. Þegar Pharisæi spurdu Drottenn ad fordum Daga/ hvenær Guds Ryke kiæme, Svarade hann þm/ Guds Ryke kiemur ecke so þss giætt verde/ þeir skulu ecke seigia/

Sia

Sem þad er þar/edur sem þ er hier/ þvi stried/ Guds Ryke er ine hia ydur/ Luc. 17. Gud kiemur ecke i Hiørtu Mañaña/ eins z Herodes og Bernice fordum/ med stooru Yferlæte/ Act. 25. Sem þß KOnungur Kiemur. Til þßn Noogvær seiger Gudspialled. Þott Christur bwe i Himnenū/ þa byr hañ under eins i sundurkrømdum Hiørtum/ Esa. 57. JEsus sagde fordum vid Nicodemum/ Vindureñ blæs/og þu heyrer hñs Þit/eñ þu veitst ecke hvadañ hañ kiemur/edur hvørt hañ fer / so eru og allet þeir sem af Andanum fædder eru / Joh. 3. Nu er Endurnyungeñ Dootter Endurfædingareñar/bædar koma af Anda Guds sm verkar i Mañenū fyrer Orded: Eñ ecke veit hñ edur skilur med hvøriu Mote hiñ alvitre Gud þ verkar/ Verkanena kiñur hñ/eñ Verkunareñar Mæta skilur hñ ecke. JEsus reid einum Asna iñ til Jerusalem/ og so þocknast Gude a stundū margañ þ fæfrooda Predikun hoolpeñ ad giøra/1. Cor. 1. Eñ þegar hañ so vitiar þyn/ syndugur Madur/þa breit epter þssu Folke: Þeir breiddu syn Klæde a Veigeñ. Eñ hvørneñ fær þu þad epter þeim giort ? Þad kieñer St. Pæll / Eph. 4. Afleggeð þañ gamla Mañeñ epter hiñe fyrre Umgeingne/sem fordiarfast i Gyrndum Villudoomsins/eñ endurnyest i Anda ydar Hugskots. Afklædunst þssū Illskuñar Ham/z køstū hønum fram fyrer Fætur JEsu: Hønum byriar þo med øllum ødrū hñs Ovinū ad leggiast til Footskarar hønū / þvi ecke er þvilykur Ovinur Christs næst Fiandanum/so sm Holldeð/hvørs Þæñkar ad eru Reide z Fiandskapr i giegn Gude. Eñ Jklædunst einū nyū Mañe/sm epter Gude er skapadur/i Riettlæte z Heilagleika Sañleikañs/Eph. 4. Miñunst Elskañleger a þad/ad JEsus Christur Køningur Dyrdareñar/ hañ var flettur synum Klædum/ z hñs blessadur Lykame var Allsnakeñ reirdur vid Stolpañ i Þynghwse Pilati / hvar hañ var Nædstryktur/ til þß ad vier yrdum frelsader fra eylyfum Nædstrokū i ytstu Myrkrum / eñ Jklædder nyum hvytū Skrwda med Pælmavidum i vorum Høndum/ Apoc. 7. Jæ/ þetta allt hefur hañ þolad til þess/ad vier mættum hønum Jklædast/so sem Paulus seiger/Gal. 3. Skylldū vier þa ecke leitast vid ad deyda vora Jardneska Limu/ sem er

Saurlifnadur/ Ohreinleike / Gyrnd/ Illfyse og Agyrne / hvør ad er Afguda-Dyrkan/ Col. 3. Sierdeilis par Gud hefur oss sialfur Vopn eñ i Hendur feinged/ hvør Paulus kallar Lioosfens Vopn/ Rom. 13. og Guds Alvepne/ Eph. 6. Pad ætlar Heimur pesse / ad hañ hafe eingeñ Not Lyffsins/ nema hañ life ad Munudum synum/ so sem væru Meñ alleina par til i Heimeñ borner/ eins z Petur seiger/ 2. Pistl. 2. Ad pr sieu eins z Skinlaus Dyr/ sem ana fram epter pvi sm Natt uraũ byd2/ alleina til pss skøpud/ ad pau slatrud verde/ nær pau faung ud eru/ og er Lyking pesse ægiæt/ pvi so sem Villudyreñ ecke um añad hyrda/ eñ ad fylla Magañ/ og verda par fyrer a stundũ tæld og lock-ud med adskiliañlegũ Veidebrellum/ par til pau eckert af vita/ fyrr eñ pau hafa Foot siñ i Snøruñe. So eru z pr ed um eckert skeita/ nema um Lykamañs Epterlæte/ Hysn Augnaña z drambsamlegt Lyferne/ 1. Joh. 2. Peir giæta ecke ad fyrr eñ Sæleñ uppvaknar i Helvyte og Kvølunum. Hvad Posteleñ greinelega um pa seiger/ er Ryker vilia verda/ ad peir falle i adskiliañlegar Freistingar og Snørur og Gyrnd er / heimskulegar og skadlegar / er steipa Mañenum i Tøpun og Olucku/ 1. Tim. 6. Eñ peir sem Christo tilheyra/ pad eru peir sm eru hañs Trufaster Pyrdmeñ og Læresveinar/ peir Krossfesta sitt Hollð med pess Gyrndum og Tilhneigingum / Gal. 5. og hroosa sier ecke nema af Christi Krosse/ fyrer hvørn peim er Heimureñ Krossfestur/ og peir Heimenum/ Gal. 6. Pegar Meñ ræda eirn Pienara til Vist-ar/ pa giøra Meñ Skilmæla vid hañ / hvad hañ vita eige/ og hvad hañ sæ skule i syn Verka-Laun. So hefur IEsus giørt/ Luc. 9. Hañ sagde fyrer øllum Møñũ/ seiger Gudspiallamadureñ: Hvør sm mier vill epterfylgia/ hañ afneyte sialfum sier/ og take Daglega siñ Kross uppa sig og fylge mier epter. Hañ sagde pad øllũ/ so aller vita mei-ge/ hvørs peir vænta eige i hañs Pienustu. Hañ seiger Daglega/ so ad pr sm Gud hefur øngvañ wtvortis Kross a Herdar lagt/ skule po vera vidbwner ad Krossfesta sitt eiged Hollð/ og deyda syna Jardneska Limu/ Gal. 5. so ad pañ vante øngvañ Christi Kross/ sem vill under Christs Merke strijda/ edur ganga a Mæla med pessũ Konunge/ pvi

pad

Þad stendur þo O.raskanlegt um Allsdur og Æfe/ad i giegnum margar Hørmungar byriar oss inn ad ganga i Guds Ryke/ Act. 14. og er hans Þienusta þo þvi betre/ enn allra annarra/ad þott hun þyke hørd Adgaungu/þa er hans Ok sætt og hans Byrde liett/ Matth. 11. þvi hann hiælpar sialfur til ad bera/ hann er trwr og freistar einkis yfer Megn fram/ 1. Cor. 10. Sætleike Guds Nædar/og Smeckur epterkomande Farsælldar/deifer so Remmu Krossens fyrer Guds Børnum/ad hennar giæter ecke. Eg heyre ad Paulus z Sylas eru glader i Fangelsenu/Act. 16. Postularner geingu fagnande wt fra Rædenu i Jerusalem/þegar þr Hwdstrikter voru/ Act. 5. Jeg heyre ad Paulus Oskar/ad Festus Landsdoomare og Agrippa Konungur være eins Menn og hann/ad þm Hleckiunum undannteknum er hann var bundenn mz/Act. 26. hvoria hann hefde þo ecke læted fyrer alla Dyrd Verallдarennar/ hefde hann ætt annars hvers a mis ad fara. Þess Sinnis var Þyslarvottureнн Babylas/er beid þe ad grafa sig med þm Hleckium er hann var leiddur til Aftøkustadarens mz/so ad ecke vantade hann sitt Brwdarskart i Vpprisunne/ Evseb. Lib. 6. Cap. 36. et 40. So lyted ackta þeir sem vel hafa smackad hvad sætur ad DRottenn er/ Ps: 34. So lyted ackta þeir hvørsu med þenann forgeingelega Lykama er høndlad. Enn vilie Menn epter spyria/ hvør ad Launenn sieu i Christi Dyrdar-Ryke / þa seiger hann sialfur/ Matth: 5. Sæler eru þier nær Mennerner hallmæla ydur og Ofsokn veita/ z tala i giegn ydur alla Vondsku þ mins Nafns saker/þo liwgande/ Fagned þier og vered glader/ þvi ydar Verdkaup er nooglegt a Himnum. Enn hvada Verdkaup Bræдur mijner? Hvilykt ecke hefur Auga sied/z ecke hefur Eyra heyrt/z ecke hefur i nockurs Manns Hug edur Hiarta komed/1. Cor. 2. Pad er þad Verdkaup er DRottenn hefur tilbwed þeim er hann elska. Hvør sem nu samann ber þa litlu Hørmung/er vier þola meigum i Christi Nædar-Ryke/z þa Dumrædelega Sælu/er hann mun launa oss med i synu Dyrdar.Ryke/ Hann mun jata med Postulanum/ad Mootlætingar þessara Tyma sieu ei verdar þeirrar Dyrdar/sem framm vid oss mun koma i eilyfu Lyfe/ Rom: 8. O JEsu unn oss þessarar farsælu Vistar med þier Eilyflega. O JEsu/

JEsu/ lát oss vera þar sem þu ert/ Joh: 17. O JEsu/ þirdstu ad þurka øll Tár af þiña Barna Augum/ Apoc. 7. O JEsu/ lát vora Hrygd snwast i Glede/ Joh. 16. O JEsu/ gief ad hvørke Lijf nie Daude/ hvørke Einglar nie Høfdingia-Dæme/ hvørke Hæd nie Dypt/ nie nockur Skiepna / kuñe ad skilia oss vid þañ Kiærleika/ sem er i þier/ Rom. 8. Og lát oss þier alldrei sleppa/ þar til þu bless ar oss med eilijfre Blessan / og vier þig aptur med eilijfu Hosiaña i hædstu Hædum. Bænheyr þ O HErra JEsu. Þier med Fød ur og heiløgum Anda/ sie Lof/ Prijs/ Magt og Velldi/ um Allder Allda / AMEN.

# Añañ Suñudag i Adventu.

## Gudspialled / Luc. 21. Cap.

A þañ Tijma. JEsus sagde til siña Læresveina: Þar munu skie Teikn a Soolu/ Tungle og Stiørnum / og a Jørdu Kvalning Þiooda og Orvinglan/ Sioor og Bylgiur munu hlioода / og Meñ munu fyrer Hrædslu uppþorna / og af Epterbydingu þeirra Hluta/ sem ad koma skulu yfer allañ Heimeñ. Þviad Krapkar Himnaña munu hrærast: Og þa munu þeir siá Mañsins Son komanda i Skijunum med Magt og miklu Vellde/ Eñ nær þetta tekur ad skie/ þa lijted upp og upphefied ydar Høfud / af þvi ad ydar Endurlausn tekur ad nálægiast. Og hañ sagde þeim þessa Epterlijking: Skoded þier Fijkiu-Tried/ og øll øñur Trie/ nær þeirra Aldin tekur wt ad springa/ þa viked þier ad Sumared er nálægt. So lijka nær þier sied þetta skie/ þa viked ad Guds Rijke er nálægt. Sañlega seige eg ydur/ ad þesse Kynslood mun ei forganga/ þangad til ad allt þetta skier. Himeñ og Jord munu forganga/ Eñ miñ Ord forganga eige.

## Exordium.

EG Dæme aungvañ seiger JEsus/ Joh. 8. Hvad er þa þad hañ seiger / Joh. 5. Fadereñ dæmer aungvañ/ helldur hefur hañ Synenum allañ Doom i Hendur feinged. Tveñt var til þess Brædur myner / ad DRottiñ talade þessi Ord fyrer Gydingum/ Þad eina ad þeir dæmdu um hañ epter ytre Asyad / þar

Þar þeir søgdu skømmu adur / Þu ber siælfur Vitne um þig / þitt Vitnesburdur er ecke gylldur / Eñ hañ svarade þessu medal añara / Þier dæmed epter Holldenu / eg dæme aungvañ / hañ meinte epter Holldenu. Sw var og Orsøk / ad hañ i þad Siñ ecke var komeñ til ad lata Doom gaanga yfer illar Athafner Mañaña / þvi Jllgresenu byrjade ad vaxa allt til Kornskieru Tijmans / Matth. 13. Eñ ei ad sijdur var þo DRotteñ komeñ til Dooms a Jørdu / so sem hañ siælfur vottar / Joh. 9. til þess ad þeir Siaande yrdu / er ecke sau / og þeir ed sau skylldu blinder verda / og er þad audvitad hver ad sie þesse Doomur / og yfer hverium hañ gieck / sem voru þverbrotner Gydingar / hverier ei villdu JEsum þeckia fyrer Guds Son / af þvi Kraptaverkinu / er hañ giørde a hønum / sem blindur var boreñ / Joh. 9. Eñ Doomureñ var þesse / Ef þier værud blinder / þa hefdud þier ecke Synd / eñ nu seiged þier: Vier siaum / þar fyrer blijfur ydar Synd / og þott ad Doomureñ sie so Riett vijs / ad eckert sie Riett vijsara / þa er hañ þo nærsta þungur og hrædelegur / þvi hañ er Undañfare hins Ognarlega Dooms / er a hinum mikla Deige alls Hollds muñ ann Miskunar ganga yfer alla þa sem ecke hafa trwad a DRotteñ JEsum. Þvi so seiger Guds Sonur / Joh. 3. Hvør sem ecke trwer / hañ er þegar dæmdur / af þvi hañ trwde ecke a Nafn Eingietens Sonar Guds. Þesse hiñ strange / eñ þo Riett verduge Guds Doomur gieck yfer hiñ vesæla Gydinga Lyd ad miklu Leite / þegar þeir høfdu uppfyllt Mæling Syndañar. Þess gietur Paulus / Act. 28. Er hañ straffar Þvermoodsku þeirra / seigiande: Þar fyrer sie ydur vitanlegt / ad Siælpræde þetta er Heidingium gefed / og þeir munu þad heyra. Þessarar miklu Guds Nadar erum vier og hluttakande ordner / er bwum under hinu ytsta Heimsins Skaute / Þeñañ skielfelega Doom yfer Guds eigeñ Foolke / høfum vier og heyrt: Eñ giætum ad þvi er Paall seiger til Heidingiaña / þeirra er vid Christne teked høfdu: Vel / þeir eru fyrer Vantrwna afbrotner / seiger hañ / eñ þu stendur fyrer Trwna. Stær þig ecke / helldur vert Ottasleigeñ / Rom. 11. Satt er þad sem DRotteñ seiger / ad hañ sem ecke trwer / sie þegar Dæmdur / Joh. 3. Eñ þvi trwa Meñ ecke? Þvi Meñ koma ecke til Lioossens. Þvi koma Meñ ecke til Lioossens? Þvi Meñ Elska meir Myrkrid eñ Liooseð / af þvi ad þeirra Verk eru vond / Joh. 3. Þad þiker Jñdællt ad sofa a Kodda Athugaleysesins / sem Andskoteñ villar sijnum Børnum a / med hañs gamla Vøggu-Kvæde / er þañeñ lætur: Hvar er Fyrerheit hañs Tilkomu / 2. Pet. 3. So hefur þad geinged i fra Upphafe Veralldar / og þar fyrer eru Meñ so treger ad vakna vid Guds Ords Bæsunu / þar til Daudans edur Doomsins Bæsunu Hliood tekur yfer / og ecke er vært ad sofa leingur. Eñ Gud veckur sijdañ med Eilijfu Ope og Taña Gnijstran i Helvijte. Hvør þad heyrer / hañ hygge þar ad / og giæte þess er Paall sagde til þeirra i Athenu Borg / Act. 17. Gud hefur tilsett eirn Dag / a hvørium hañ Dæma muñ alla Jardarkringluna med Riettlæte / fyrer þañ Mañ er hañ hefur fyrerhugad. Þar fyrer vil eg lata mitt Tal vera i þetta Siñ / hvad oss eige ad leida til þess ad bwa oss under hiñ sijdarsta Dag / sem vær ecke vitum / nema ad Morgne uppreñe. Hiælpa þier til / O þu Allsheriar Doomare fyrer JEsum Christum / AMEN.

## Utleggingeñ.

ÞAr munu Skie Teikn a Soolu og Tungle og a Stiørnum. Þad sijnest audrꝏded vera/Brædur mijnˢ/ad ecke mune Endurlausnareñ hafa talad þetta so vegna Læresveinaña edur Folksins / er hm̃ i þad siñ nꝏlægt var/þvi jafnvel þott ad þr til samaňs hafe i þire Meiningu vered/ad hiñ sijdarste Dagr munde vera skamt i burtu/so s̃ sim mꝏ af siimu þvi/er þr hafa skrifad epter sig lꝏted/Þa hafa sijdañ mørg Hundrud Ar lided allt til þessa Dags/ Helldur er þ sagt vegna vor/ yfer hvøria lijklegt er/ad Heims Endereñ sie komeñ/ Fyrer þvi ættũ vier/ecke sijdst mz Ugg z Andvara ad vænta Tilkomu Drotteñs/þvi ef Herraňs Postular ætludu a þm̃ Døgum/ ad hun munde so nꝏlæg vera/hvørsu miklu nær mun hun þa vera oss/ er so miklu sijdar lifũ. Eg hygg ad Teikn þsse flest/ er Lucas gietur um̃ i Evangelio/mune ecke fiarlæg Doomenum verda/ helldur nærre i sama Vetfꝏnge/þvi Herrañ seiger hier/ad vier munũ þa Sia MAñsins SOn Komanda J SKijũ HJmens/ z er audsært/ad þss mune ecke lꝏngt ad bijda ur þvi ad allt þtta skiedr/sm̃ mꝏ skie ei añad verde eñ Fiorbrot Veralldareñar/þegar Himnarner munu med Stoorbrestum forganga/ og Hofudskiepnurnar af Hita brꝏdna/2. Pet. 3. hvad medal aňara mꝏ þar af rꝏda/ad Jesus seiger/Marc. 13. Ad um̃ þañ Dag vite eingeñ Madur/og ei jafnvel Einglar a Himnum. Eñ ef Teikn þesse skiedu rꝏmum Tijma fyrr eñ Himeñ og Jørd forganga/ þa kynu þeir ed a Jørdu bua/ad vita nockud hier um̃/hvad St. Petur fortekur/2. Ep. 3. er hañ seiger / Ad Dagur DRotteñs mune koma sem Þioofur a Noottu. Eñ Þioofureñ gjører aungva Vitneskiu undañ sier/aňars være hñ ecke Þiofur/So er og Dagur DRotteñs/þvi eins og Tꝏlsnꝏra mun hñ koma yfer alla þa sem a Jørdu bua / Luc. 21. Drage þvi eingeñ skꝏlfañ sig a Tꝏlar / edur meine / ad af þvi ad þesse Teikn sem Lucas skrifar um̃ i Gudspiallenu/eru eñ nu ecke øll framkomeñ / og vier merkium aungva Vm̃breiting a Soolu / Tungle og Stiørnum/adra eñ hun vered hefur i fra Vpphafe Veralldar/epter venjulegu NꝏtturuňarHlaupe/ad Drotteñ mune þar fyrer seinka/so sm̃ nockrer kalla þad Seinlæte seiger Petur/2. Pet. 3. Helldur er hñ

þoleñ

Þolēmodur vid oss/viliande ei ad nockur fyrerfarest/ helldur ad aller snuest til Ydranar. Lätū oss ei þvilijkt i Hug koma/ Brædur mijner/ Þvi þad eru Spottarañā Þánkar/ er hn̄ seiger ad upp mune rijsa a sijdurstu Døgum/ þeir ed ganga i sijnum eigen̄ Girndum / seigiande: Hvar er Fyrerheit hañs Tilkomu/2. Pet. 3. Þvi sijdañ Fedurner sofnudu/þa er allt hid sama so sm̄ fra Upphafe Sköpunareñar. Og hn̄ dylur ecke hvar fyrer ad syndugū Mønnū/ sem alla Hlute mæla/epter Fääfræde Spillingareñar og Smámunnū vorū / sem þioottū upp eins og Gufa/ eñ lijdū i burt aptur a Augabragde. Hvar fyrer / seige eg/ ad oss þyke so lángt ur verda er hn̄ talar um̄ þetta sama Efne/seigiande: Eñ eitt sie ydur vitañlegt Elskanleger/ad eirn Dagur er fyrer DRottne so sem þusund Ar/og þusund Ar so sem eirn Dagur. Eñ þeir ed þetta ecke samañbera vid Guds Fyrerheit/þm̄ þyker so sm̄ ad hañ tefie og sie brygdmäll ordeñ/ so er þad og vijst / ad jafnvel þott ad bæde St. Páll og adrer lijse þvi/ad Heims Endereñ være yfer þa komeñ/ 1. Cor. 10. þa hefur ecke Postuleñ vænt hñs so brádlega/ þar hn̄ seiger/2. Tess. 2. Þier skulud ecke skielfast fliotlega i Hugskotū ydar/nie trublast hvørke af Anda nie Orde/nie af Sendebriefe/sm̄ vier hefdū skrifad/eins z Dagur Drottenñs være nær þvi komeñ: Kañskie þss vegna / ad einhvør hafe teked sier Ordsøk af hñs fyrra Pistle til Þra/ad skielfa veikar og Istødulitlar Samvitskur/þar ed hn̄ skrifar: Eg hef ei þørf ad skrifa ydur um̄ Tijma og Hentugleika / þvi þier glørla vited/ad sa Dagur Drottenñs mun koma/sm̄ Þiofur a Nottu/ þegar þeir seigia: Þar er Fridur og Tryggleike/ þa er þm̄ skyndeleg Foreidsla nærre / so sem Jodd-Sott þungadre Konu / 1. Tess. 5. Lätum oss þvi ecke Andvaralaust lifa / Brædur mijner/þott DRottenñ dvelie/þvi Komande mun hn̄ koma og ecke seinka/ Heb. 10. Eñ vier vitum ecke/ a hvørium Tijma ad hn̄ kiemur / ad Kvøllde-Dags edur um̄ Midnætte/edur þa Haneñ galar/edr sneīma Morguns/ so ad þegar hn̄ kiemur hastarlega/ ad hn̄ fiñe ydur ecke sofande. Þad eg seige ydur/þ seige eg øllum/seiger DRotteñ/ Vake þier, Marc. 13. Lätū ecke vora Yeran bijda epter Soolareñar [illegible]ormyrkvan/þvi þegar hun

allra ſijdarſt tekr ad ſorna/ mun Ydranar Tymeñ ute vera/ hun hefr ſo leinge þionad oſſ i Heime þeſſũ/ ſo leinge afmarkad tilſetta Tyma af Gude/ og bored Vitnisburd um̃ hñs Vitſku/ hñs Dyrd/ hñs Giæſku og hñs Almætte/ ſo leinge hefur hun ſkyned yfer Oguudlegañ Neim þeñañ/ ſo leinge uppruñed yfer Ranglæta z Riettlæta/ ad aller hafa haft noogañ Tyma til ad ydraſt/ og leita Guds Nadur eñ þ ſijdarſta Myrkur byrger heñr fagra Lios/ ſo hun mun uppþadañ alldrei ad Eilijfu ſkijna. Nu hefur alldrei fra Veralldar Upphafe formyrkvaſt a moote Natturuñar Edle/ nema ollu Einu Siñe/ þegar Himen og Jordbyrgdu þ Augu ſier / og ſo ſm̃ ſkielfduſt vid ad horfa þar a/ ad þra Skapare var eins z eiñ Bolvare a Kroſſeñ uppheingdur/ Matth. 27. Eñ ef hin Natturlega Sooleñ miſte ſijna Byrtu af þvi/ ad Sool Riettlætiſins formyrkvadeſt um̃ Stundar ſak'/ hvad er þa ad undra þott hun alldeilis blind verde/ þegar hañ kiemur i Skyũ Himens med hañs heilogu Baſunum/ Judæ Piſt. v. 14. Ja/ þegar þeir munu fyrer hiñ hæſta z ſijdaſta Riett kallader verda/ ſem Kongs Dyrdareñar hafa ad nyju kroſſfeſtañ/ z Sattmalañs Blood almeñelegt hallded / med hvoriu þeir helgader eru/ Heb. 10. Lat þier þetta tafnañ fyrer Augum vera/ Syndugur Madur / þegar þu ſier hid bleſſada Heimſins Lioos / ſem alla Verolldena upplyſer/ þu ſier hana i Dag uppreña / þacka Gude þar þ / eñ þu veiſt ei hvort hun nu mune ſijnir veniulega Takmarke ad Kvollde Dags / þu ſier hana i Ægeñ ganga/ og ad Tungled og Stiornurnar taka aptur ad lyſa/ eñ þu veiſt ecke nema a þeirre ſomu Noottu reñe upp Jacobs Stiarna Chriſtur / Num. 24. añad ſiñ / ſem bæde Sool og Tungl mun formyrkva og ad aungvu giora/ og Stiornunũ af Himne ofañ ſteipa/ ſo ſm̃ þa eitt Fijkiutrie kaſtar ſijnũ Avoxtũ fra ſier/ nær þad hriſteſt af Stormenũ. Lat þar fyrer Soolena ecke underganga þijna Vondſku. Tru ecke ſo Natur Myrkrunum fyrer þier / ad þu miñeſt ei vid Soneñ / a medañ þu ert ei a Veige med honum / ſo ad hañ verde þier ecke reidur/ Pſalm. 2. Ef kañſkie hañ byrteſt i Skyum Himens a þeirre ſomu Noottu. Haf þiñ Lampa tendradañ/ ſm̃ er Lioos Tru-

ar

ar þiñar / ad ei verder þu utelokadur / þegar Brudgumeñ kiemur um̃ Midnætte / Matth. 25. Nu ad Bode Peturs er hañ seiger / 2. Pet. 3. Þar fyrer Elskanleger / þar þier bijded epter øllu þssu / þa kostgiafed ad þier hreiner og Ostraffañleger af hønū fundner verded med Fride / og halldeð Seinlæte Drottens til Reideñar / ad vera Niælpræde. Eñ hyggiñ ad þvi / hvørsu ad hñ mun Obærelega strængur og hardrædur verda øllum Gudlausū og þverbrotnū / er sier hafa a Nædartijmanum Reide safnad. Hañ mun ei koma so sm̃ fordum Daga / liggiande i einū Stalle / ecke so sem þier heyrdud Fyrra Suñudag / Sitiande a Øsnu / og a Fola klifbærrar Øsnu / Matth. 21. Ecke so sm̃ hñ var utleiddur af Þynghuse Pilati / berande eina Purpura Kæpu z Þyrne Koronu / Joh. 19. Eñ þeir ed allt þetta hafa ad aungvu haft / þeir munu siæ hñ so sem eirn strængañ Doomara. Elldureñ breñur fyrer hañs Auglite allt til nedsta Helvijtis / Devt. 32. J hønum munu Himnarner sundurglidna / og Høfudskiepnurnar smelltast / 2. Pet. 3. Kryngum hañ mun geysa eitt hrædelegt Stormvidre / Aller hañs megtuger Einglar munu hønū fylgia / og hñs heiløgu Þusunder um̃hverfis hñ skijna / m z skielfelegre Høfud-Eingelsins Bæsunu mun hñ kalla Lifendur og Dauda i Lopted upp til mots vid sig / 1. Tess. 4. og eingeñ Skiepna mun standast hñs Tilkomu / Mal. 3. Þa mun Sool eñ Formyrkvast / af þvi ad Guds Forsmæmarar geingu formyrkvader i Huxunum sokum þeirra Þeckingarleysis / vegna Hardudar þeirra Hiarta / 2. Tim. 3. Þa munu Kraptar Himnaña hrærast / af þvi þeir hafa so tijtt syndgad i Himneñ / og forsmæd hñ sm̃ i Himnenum byr / þa mun verda a Jørdu Angist og Rædleysa Þioodaña / so sm̃ þa Sioor z Bylgiur hlioda / sm̃ vite þær ecke hvar þær eige ad falla edur hvad af sier ad giøra / þañeñ mun allt Holld verda i Tilkomu Drottens. Þegar Jeremias spaer um̃ Babilons Eydeleggingu / þa dunar hñ so sem eitt Reidar-Slag a þeñañ Hatt : Þeirra Bylgiur munu dynia / þeirra Raddar Hliood mun verda so sem mikilla Vatna / Jer. 51. Eñ hvad miklu meira mun verda Øskur hiñar stooru Babilon Veralldareñar / þegar hun hrapar i Dijked þad / sem vellur af Ellde og

Brekesteine / Apoc. 21. med øllum þeim sem druckner eru af Vijne þeñar Hoorunar/Apoc.17. O/hvørsu fegner munu þa þr/ ed smaad hafa hiñ Fakaka JEsum z hñs Limu/i Velmagt sine hier a Jørd uñe/hvørsu giarna munu þeir þa vilia hafa sadt hañ/ þegar hañ hungradur var/ svalad hønum/er hñ þyrstur var/ hẏst hñ/þegar hñ Giestur var/klædt hñ/þegar hñ nakeñ var/vitiad hñs/þegar hñ var siukur og i Myrkva-Stofu/ Matth. 25. Hvørsu lẏted munu þeim gagna þa Mekord þau/er þeir keyptu fyrer Guds Vinættu/Epter læte Heims þssa/er þr møttu framar eñ Drottens Kross/Eigner og Bugardar/fyrer hvøria þr selldu Sæler sijnar/ Sveite Daglaunar añs/er þr hafa innehallded/ Hus Eckiunnar z hiñs Fødurlausa/er þr hafa utsoged/Braud hiñs Einfallda z Naudstadda/er þr hafa svik ed under sig med Okre z Rangsleitne. Hvad lẏted mun allt þetta duga þm/nær Verølldeñ og øll heñar Dẏrd og Hoffrakt stendur i biortu Bale/ Eñ hiñ Riettlæte Dimeñs z Jardar Konungur vill seigia upp Doomeñ med þssu skielfelega Atkvæde: Fared fra mier bølvader i eylijfañ Elld/ sem fyrerbueñ er Dioflenū og øllū hñs Arum/ Matth. 25. O DRotteñ vor Gud / hvørsu mun hañ þa Ognarlegur verda i Augū Fordæmdra Mañа/er ecke eiga framar neirnrar Nad'r Von? Manoha og hñs Kvinna sau Guds Son / er hañ stie upp i Foornar-Elldenum / og hañ meinte þau mundu þar fyrer deyia / Jud. 13. Esajas/sa Gud sitiande a hæum Stoole/ og hønum fiellst Hugur/ so hñ sagde: Vei mier/eg mun upprættur verda/þvi eg hefe saurugar Varer/z bẏ a medal þss Folks/ er saurugar Varer hefur/þar eg hefe sied Drotteñ Allsheriar Konung/Esa/6. Jsraels Syner beiddu Moisen ad ganga uppa Fialled og tala siña vegna vid DRotteñ/ Exod. 20. þegar Guds Reider sloou i Horeb/ og søgdust eige framar gieta heyrt Raustena DRotteñs Guds sijns. Daniel sa Christū vid Fliot ed Chid-Dekel/og þar var ecke Mattur i hønū/øll hñs Fegurd umbreittest / so hañ hafde aungva Krapta/ Dan. 10. Lærisveinarner urdu Okkaslegner/er hañ kom til þeirra ad lycktum Dyrum/ Luc. 24. þesser voru þo aller Guds Viner/ þeim byrte hañ sig i Nad sine og

Giædsku/

Giædsku/ þo kuñe ecke Breisk leike Hollðsins að standast Nælægð Guðdomsins/ hvað mun þa við Ovine Drottens skie i Doomenum? Þegar hañ utheller þeirre Reideñe i einu Augnablike/ sm̄ þeir hafa safnað sier a Reideñ Dag/ Mañ epter Mañ um̄ alla Æfe. Þegar Josua hiñ ÿpparste Kieñemaður stood fyrer Eingle þss mikla Raads/ z Andskot eñ hønū til hægre Handar/ til að mokstanda hm̄ i Jerusalems Bygg-ingu/ þa stood hañ i saurugum Klæðum/ þar til DRottiñ took hñs Ræng|ætte fra honum/ Zach. 3. og var þa Guds Sonur hñs Tals-maður. Eñ hvørneñ munu aller Guðlauser verða/ þegar þeir standa fyrer Domara alls Holds/ þegar Guð sialfur ækklagar/ eñ eingeñ af sakar/ þeg'r Rængleted ei framar verdi burt teked/ helldur tilreiknað z þeir munu standa Skømeñe Iklædder. Psalm. 109. Og um̄ Allder Allda utrekner fra hiñe Himnesku Jerusalem/ Apoc. 3. Johañes seig er/ þeir drecka af Vijne Guds breñande Reide/ z kveliast mz Ellde z Breñesteine i Auglite heilagra Eingla z Lambsins/ Apoc. 14. og þr munu aungva Ro hafa Nott nie Dag/ þeir munu eta Tungur sijnar ut af Ofraun / og lasta Guð Himensins ut af Kvøl og Saarendum sijnū/ og þeir munu Dauðañs Oska/ og hañ mun fra þeim flija/ Apoc. 9. J øllu þessu fa þeir ecke eirn Dropa Vatns til að kiæla með Tungu sijna/ Luc. 16. Þetta er að søñu Ognarlegt að heyra/ Bræður mijner/ eñ þ er þo Guds Orð sem ecke kañ að liuga/ eñ ef það kañ að ofbiooda nockrū að heyra alleina / hvað mun það þa vera að siaa z reina/ Ecke hefur Guds Ande forgiefens talað þtta/ og so skijrlega uppteikna læted/ eckert af Guds Orðū mun a Jørðu falla/ Himeñ og Jørð forganga/ eñ hañs Orð forganga alldrei / Luc. 21. Lat þau þvi duga þier til þess / að þu verker þijna Sæluhiælp með Ugg og Otta/ Phil. 2. að ei komer þu i þeñañ Kvalastað / eður sierf varbu-eñ við hinum sijdarsta Deige/ sem þu ecke veitst nær að þier uppreñ-ur. Hugleið Christeñ maður/ hvað JEsus seiger Joh. 12. Hvør sem forsmaer mig/ og meðtekur ecke mijn Orð/ hñ hefur þañ sem hañ dæmer/ það Orðeð sm̄ eg talaðe/ það mun dæma hñ a sijdarsta Deige. Vert þvi ecke Ugglaus eður Ohræddur Barn Guds/ þegar þu stiur

under

under Heyrn hñs Orda/þvi þat er þiñ Domare/þad mun a hinũ efsta Deige uppskaatt verda/hvorneñ þu hafer epter þvi teked/hvorneñ þu hafer epter þvi lifad/hvorsu fus þu hafer vered a ad heyra þad/hrad vandlega þu hafer mz þ hondlad/i hvad goodu z sidsømu Niarta þu hafer geimt þ/hvort þu hafer fært þar Avøxt af i Polenmæde/Luc. 8. Allt þvilijkt verdur bert þegar Bækurnar verda upplauknar i Doomenum / Apoc. 20. Og epter þvi muntu dæmdur verda. Þvi so seiger Paulus / Ad DRottenn mune dæma leynda Hlute epter sijnu Evangelio a sijdarsta Deige fyrer Christũ JEsũ/Rom. 2. Seig mier/Barn Drottens: Munder þu þora ad forsmaa þañ/er ætte ad dæma uñ lijf þitt edur Æru/edur svara hønũ fullum Hælse/sierdeil is ef þu þig sekañ visser/og þier uggvænt þætte/ad þu munder falla a mælinut Pad þorer eingeñ ad giøra. Ecke eru Dæme til þess/ ad nockur hafe so bited Høfuded af Skømeñe. Eñ þad þora Meñ ad seigia/ad Prestar seige so margt/þ sie ecke allt satt/jafnvel þott þeir ra Embætte sie DRottens/z þeirra Verk/þeirra Guds/ Esa. 49. Þetta voga meñ ad seigia z hugsa under Heyrn Guds Orda/ sñ eiga ad dæma þa a sijdarsta Deige. Veistu ecke sagde Pilatus/ad eg hefe Valld til ad krossfesta þig/og Valld til ad læta þig lausañ/eñ hañ laug/þvi hañ hafde eckert Valld yfer hinũ Alvallda Konunge/nema hønũ hefde vered giefed þad af Himnum ofañ. Eñ Christur hefur til þess Valld i hñs heilaga Orde/syndugur madur/ad fordæma þig/ ef þu kastar þvi a Bak þier aptur/z so til ad læta þig lausañ/ef þu hlijder þvi. Hvar fyrer læta Meñ þa hid gooda Ord Guds/ so sem Vind uñ Eyrun þioota. Meñ hrædast allañ Voda / eñ Guds Ord ecke/þier þyker þeim Tijma vel vared/ er þu giefur støted þier undañ þess Heyrn/z munder þar kañskie alldrei koma/ nema þu meir Ottad est meñena eñ Gud/ Eñ muntu z giefa støted þier undañ hinũ sijdarsta Dome/ hvar þu skallt þo af þ̃ssu sama Guds Orde dæmdur verda. Og fyrst þu villt ecke heyra Christ/ þar ed hñ seiger: Komed til mijn aller þier sñ erfided z Þunga erud þiader/ eg vil Endurnæra ydur/ Matth. 11. Þa skalltu þo heyra hñ a sijdarsta Deige/ hvort þu villt

edur

edr ecke/er hn seiger/Fared fra mier all' Illgiorda Men. I einu Orde ad seigia/Þar er eingen Alutur sm meir ætte ad hvetia upp syndugan Man til ad buast vid Daudanu/en sialft Guds Ord/ hvort han mun dæma/epter hvøriu hn mun dæmast/z fyrer hvørs Forøddun hn mun dæmdr verda. Sie þ þier kient z predikad af hinu Aumasta z Vesæl asta/af einu Fatækn z Lytillkunande/ hvor hallden er fyrer Afrak og Hreinsun Veralldar/ forsmaa þeige ad helldur/ef þ eru Guds Ord hn hefur i Munne/z hns Evangelium/er sagde til sina Postula z allra þra er leitast vid ad feta i þeirra Footspor/ og hn z Vmlod a Nende hafa. Hvør sm forsmaer ydur/han forsmaer mig/en hvør hn mig forsmaer/ han forsmaer þan er mig sende / Luc. 10. Jæ/ þoott þad sie frambored af einhvøriun/sm eckert giører af þvi hn kiener/ þa kanast þo þar vid/ad Jesus sagde til sina Læresveina: A Moisis Stoole sitia Skriftlærder og Pharisæi/allt hvad þeir seigia ydur ad vardveita/þad vardveited z giøred/en epter þeirra Verkun skulud þier ecke giøra/þvi þeir tala og giøra ecke/ Matth. 23. Hvør sem nu um þetta vandlega hugsar/han mun þess betur læra ad buast vid þessum hrædelega Deige/med Daglegre Ydran og Apturhvarfe fra Syndum og Glæpum / og þad þess helldur/ sem lijklegra er ad DRottens Tilkomu sie ei all langt ad bijda/þvi þott þau Teiknen er Lucas i þessu Gudspialle umtalar/sieu en þa ecke øll framkomen/og lijkast sie/ad ei framkoma mune fyrr en under sialfan Doomen/þa geingur þ eins til hier/so sm fyrer daudlegu Manne/ad Helsotten er leinge ad bua um sig i hns Lijkama/ædur en hun skilur Lyfed af hønu. So hefur og Gud openberad oss i sijnu heilaga Orde nockr Teikn/þau er a sijdursitu Døg um skie munu/z eru Vike hins efsta Dooms/er vier vel meigu þeckia og vidkannast a vorum Døgum. Christur seiger/Matth. 24. Ad Evangelium Rijkesins skule predikast um allan Heim/ til Vitnisburdar øllum Þioodum/og þa mune Endeeren koma. Sidan hvørsu Guds Orda Doomur skal yfer alla Men ganga/þar eru z miøg mæt Þiod er nu i Heimenu/a medal hvørra et hefur skined Lioos Evangelij/þott aller hafe ecke vid þvi teked / Nan gietur um þar mune verda Hunge

ur Drepſoott og Jardſkialftar i øllum Stødum / Matth. 24. og
kallar þad Vpphaf Hørmunganã/ Þetta høfum vier ſialfer reynt/
Brædur mijner/og er ecke langt a ad miñaſt/Gud giæfe vier værum
þſſ ſo miñugᵉ ſm̃ vera byriade/ef Meñ vilia ecke øñur Teikn þeckia/
þa mættu Meñ þau vidkañaſt er almeñuſt eru/og JEſus um̃giefur/
Luc. 18. Þegar Mañſins Sonur kiemur/meinar þu hañ fiñe Tru a
Jørdu? Noog er af Guds Orde/ Noog af Evangelij Lærdoome/ til
Vitniskurdar yfer øllum Møñum/Matth. 24. Eñ hvørt hiñ ſaña
Guds Otta er ſo vijda ad fiña / ma ſtoorlega efaſt um̃/ edur ſeiged
mier/hvada Nyrkne er þ/ad Almeñingur hefur a ad læra Chriſtelega
Tru/edur kieña hana þm̃ er vid þurfa eñ þo allra ſijdſt epter heñe ad
lifa? Eg hygg þad gange til eins ꝛ a Noe Døgũ/ hvad ꝛ er Teikn
Mañſins Sonar Tilkomu/ Matth. 24. Þeir atu og druccu/ þeir
gyptuſt ꝛ ſig gypta lietu/allt til þſſ Dags/ad Noe gieck iñ i Ørkena/
og þecktu ei Flooded/fyrr eñ þad kom og took þa alla i burtu. Ja nu
a þeſſũ Døgũ ædur eñ þr vita hvad Nioonaband er / edur kuña meir
eñ eirn Aſne ad uppfræda Børn ſijn i Chriſtelegre Tru og ærlegum
Lifnade. Þeir gieta þau epter ſiñe Mind/ og ala þau upp epter ſiñe
Mind/Andſkotanum til Þioonuſtu a ſtundũ/eñ ecke Gude. Eñ fyrſt
Trueñ er þañeñ/þa er ei Von ad Kiærleikureñ ſie betre/ ſo ad ræteſt
eirneñ þad er Frelſareñ ſeiger ad fram̃ mune koma fyrer hiñ ſijdarſta
Dag/ad af þvi Ranglæted vex/mune margra Kiærleike kolna/Math.
24. Þetta er ſo vijſt fram̃komed/ ad mig undrar þad Meñ ecke hafa
gleymt Nafnenu/þar Hluteñ ſialfañ er valla hia nockrũ ad fiña. J
einu Orde ad ſeigia: Meñ þreifa a þvi ſm̃ Paulus ſkrifᵃʳ/2. Tim. 3.
ſeigiande: Vited ad a ſijdurſtu Tijmum munu verda farlegar Tijd-
er/þar munu verda Meñ Siergooder/agiarner/Hoolſamer/Dramb-
later/Gudlaſtarar/Forelldrum̃ Ohlijdnger/Oþacklater/Slæpafull-
er/Hardbrioſtader/Heiptræknᵉ/Lausſiñader/Oþijder/Gott hatande/
Svikarar/Þverbrotnᵉ/uppblaſner/elſkande meir Sælgiæte eñ Gud/
hafande Skin Gudhrædſluñar/eñ afneita heñar Krapte. Allt þetta
hygg eg ad Noe þeckia munde/ef hñ nu mætte lijta upp af Grøf ſiñe/
og

og þad þecker hvør eirn/ ſa ed giører nockurn Greinar Mun a millū Dygda og Odygda. A Døgum Noa ſløckte hiñ Riettlæte Gud Bæl Oleyfelegrar Elſku og Loſtagyrndar med Vatnsfloodenu/ fyrr eñ þeir nockud af viſſu/ eñ nu tekur Kiærleikureñ ſo ad kolna/ ad Niør ku ſumra Maña mæ ſtockfredeñ kalla/ jæ hardare eñ Kopar ꝛ Stæl. Hvad er lyklegra eñ ad hiñ alvikre Heimſins Smidur mune bræda þau ꝛ ſmellta mꝫ hinu ſydarſta Bæle/ fyrr eñ nockurn varer? þetta vil eg nu hafa ſagt/ Brædur myner/ Ydrunar og Athugalauſū til Vidvør unar/ eñ ecke ſturludū edur ængrædum Samvitſkum til Skielfingar/ øllū til Sidbooka og Leidriettingar Lifnadareñs/ eñ aungvū til Ør vænkingar/ þvi ſo ſm̄ Tilkoma hiñs mikla Guds og Drottens vors JEſu Chriſti mun hrædeleg verda øllum Ogudlegū Møñum/ ſo mun hun gledeleg verda øllum þeim er a hñ vona/ og hefiar med þoleñmæ de byda. Þad kieñer oſſ St. Paall/ 2. Teſſ. 1. ſeigiande: Þad er Riett vyſt fyrer Gude/ ad endurgiallda þeim Þiæninguna er ydur þiæ/ Eñ ydur ſm̄ þiæeſt Endurnæringu medur oſſ/ þegar Drotteñ Jeſus opeñ beraſt af Himne med ſynum megtugum Einglum. Ad ſøñu byriar oſſ øllum ad mæta fyrer Doom-Stoole DRottens / 2. Cor. 5. og þar Reikning ad ſtanda/ jafnvel af hvøriu Onitiu Orde/ i Doomenum/ Matth. 12. Eñ þad er Ohult ad mæta fyrer hañs Doome / ſem ſialfur er Talsmadur ſiña Barna. Sa fer ecke ſekur af Þyngenu/ ſm̄ ſialfur a ad dæma/ Eñ nu eru aller Truader eitt med hønum/ ſo ſem hañ og Fadereñ eru eitt / Joh. 17. Og hañ er Høfud Lykamañs / ſem er Chriſteleg Kyrkia/ Eph. 1. Þad er og indællt ad ſtanda høn um Reikning / ſem ſialfur hefur betalad fyrer alla Skulldena / þar fyrer ſeiger JEſus/ Joh. 3. Sa ſem truer a Soneñ/ ſa dæmeſt ecke. (hvar Doomſins Ord merker Fordæming) Og aptur ſeiger hañ: Sa ſm̄ heyrer myn Ord/ ꝛ truer hønū er mig ſender/ hñ hefur eilyft Lyf/ og hñ kiemur ecke i Doom (þad er i Fyrerdæming) helldur fer hñ fra Daudanum til Lyffins / Joh. 5. Þvi ſkylldu þa Guds Børn fælaſt hiñ ſydarſta Dag? Mun ein Brudur ottaſt ſyns Brudguma Til komu/ og ecke helldur a allar Lunder bua ſig til ad fagna hønū? Mun

 eitt

eitt Barn fela sig fyrer sijnũ Fodur: Eñ so sm̃ Faderẽ er Børnunũ
lijknsamur/ Ps. 103. so vill hiñ eilijfe Fader z Fridar=Høfdinge/ Es.
9. vera oss nædugur a þeim Deige. Þar fyrer seiger hañ og i þessa
heilaga Dags Evangelio. Eñ Nær þEtta Tekur Ad Skie/ þa
lijted upp/ og upphefted ydar Høfud/ af þvi ad ydar Endurlausn er
Nælæg. Þad er sem hañ segde: Þier skulud ecke leingur nidurluter
ganga/ af þeirre Sorg er þier hafed i Heimenũ/ þvi þa skulud þier i
mier Glede hafa/ Joh. 16. Þier skulud ecke leingur stynia med sialfũ
ydur / bijdande epter Arfleidslufie sem er Endurlausn ydar Lijkama /
Rom. 8. þvi hun er þa nælæg. Þier skulud ei leingur kveliast i Fang
else þessa daudlega Lijkama/ þvi þetta er Dagur Endurnæringareñar/
Act. 3. Dagur Endurfædingareñ/ Matth. 19. Dagur Endurlausn
areñar/ Eph. 4. Dagur Endurnijungar allra Hluta/ þa munud þier
ecke framar syrgia þa Guds Mind er þier i Adam topudud/ þvi þier
munud sia i Skijum Himeñs hiñ añañ Adam / sem er DRottẽ af
Himne / 1. Cor. 15. Og þo Holld af ydar Hollde / hvør ad er ydar
Brooder/ og þo ydar Doomare/ ydur ad øllu samlijkur / Ebr. 2. ad
Syndeñe fra tekeñe / Eñ þo J-mynd sijns Fødurs Dijrdarfullrar
Persoonu/ Ebr. 1. Hvør ydar forgeingelega Lijkame mun forklæra
og samlijka giøra sijnũ dijrdlegũ Lijkama/ Phil. 3. Lijted upp þier sem
leinge hafed leitad ad þvi sem þar uppe er/ Col. 3. þa skulud þier þad
fiña. Upphefied ydar Høfud/ sm̃ asamt allre Skiepnuñe hafed med
utrietttu Høfde/ bijded epter ydar Endurlausn/ Rom. 8. og sized yd-
ar Høfud komanda i Skijum Himens. Lijted upp þier sem med A-
hyggiu hafed leinge þrad epter hiñe himnesku Jerusalem / Gal. 4.
sem þar uppe er/ og gæiged nu iñ i hana/ þa mun DRottẽ seigia:
Komed þier sem nakter erud / eg mun giefa ydur hvijtañ Skruda og
fæ Palmavid i Hendur ydar. Komed þier sem þyrster erud/ eg mun
dryckia ydur af Straumum lifanda Vatns/ Joh. 4. Komed þier sem
hungrader erud/ eg mun metta ydur af nægdar Giædum Guds Huss/
Ps. 36. Komed þier sem Erfided og þunga erud þiader/ eg mun end
urnæra ydur/ Matth. 11. Komed þier sem sijted og græted/ eg mun
þerra

Þerra ell Tár af ydar Augũ/ Apoc. 7. Komed þier sm̃ bored hafed mitt ſæta Ok/ og mÿna lietta Byrde/ eg vil ydur endurgiallda med eylÿfre Þyngd Dÿrdarenar/ 2. Cor. 4. Komed þier ſem reiknader erud fyrer Afrak og hreinſun Veralldar/ eg vil ſetia ydur til Bords med Abraham/ Iſaac og Jacob/ Matth. 8 Jæ/ Komed bleſſud Børn mÿns Fødurs/ og eigneſt þad Rÿked/ ſem ydur er fyrerbued fra Upphafe Veralldar/ Matth. 25. Kom O Herra JEſu/ kom og inleid oſſ i þetta Fagnadarſala Lambſens Brudkaup og þÿna Dÿrd/ þu ſem lifer og rÿker ad Eilÿfu/ AMEN.

# Þridia Suñudag i Adventu.

## Gudſpialled/ Matth. 11. Cap.

Þañ Tíma. Eñ þa ed Johañes heyrde i Bendunum Verkeñ Christi/ ſende hañ ut tvo af ſÿnum Læreſveinum/ og liet ſeigia hønum: Ertu ſa ſem koma ſkal/ eda eigum vier ad vænta eins añars? JEſus ſvarade og ſagde til þeirra: Fared aptur og kuñgiøred Johañi hvad þier ſiaed og heyred. Blinder fa Syn/ Hallter ganga/ Lÿkþraer hreinſaſt/ Dauſer heyra/ Dauder uppriſa/ og Fatækum verda Gudſpialleñ bodud/ og ſæll er ſa ſem ecke hneixlar ſig a mier. Eñ ad þeim iburt geingnum/ hoof JEſus ad ſeigia til Folkſins af Johañe. Hvad foorud þier ut a Eydemørku ad ſiá? Reyr þañ ſem af Vinde er ſkiekeñ? Eda hvad foorud þier ad ſiá? Mañ Miuk-klæddañ? Siaed/ ad þeir ſem miukañ Klædnad bera/ eru i Kongaña Huſum/ Eda hvad foorud þier ad ſiá? Eirn Spámañ? Eg ſeige ydur fyrer Sañ/ þañ meire er eñ nockur Spámañ/ þviad þeſſe er ſa/ af hvøriũ ſkrifad er: Siá þu ad eg ſende miñ Eingel fyrer þiñe Augſÿn/ ſa er þiñ Veg ſkal tilreida fÿ þier.

## Exordium.

Hvørſu ſtoor ad ſie Myndugleike heilagrar Ritningar/ Þad kieñer oſſ beſt allra DRottẽ JEſus/ er hañ ſagde vid Gydinga/ ſem ecke villdu trwa hønum þyrer Kraptaverkeñ/ er hañ giørde. Rañſaked Ritningarnar/ þvi þier meined ydur i þeim ad hafa Eilÿft Lÿf/ og þær eru þad/ ſem bera Vitne af mier. Joh. 5. Vel hefur JEſus þetta hvørtveggia ſamañtt eked/ ad bøndla

um̃ Eilyft Lyf / og ad bera Vitne af sier / þvi þad er Eilyft Lyf / ad þeir þecke þig saññañ Gud ad vera / og þañ þu sender JEsum Christum / sagde hañ / Joh. 17. An JEsu Vitnisburdar / verdur eingeñ hoolpeñ / og hvør sem hañ hefur og medtekur / hañ hefur Lyfed i sier blyfanda / og kañ ecke ad fara a Mis vid Sæluhiälpena / þar um̃ vitnar St. Petur / Act. 4. Ad ei sie i ødrum Hiälpræded / og ad þar sie eckert añad Nafn Møñunum gefed under Himnenum / i hvørju oss byrie Saluhoolpnum ad vera / eñ Nafned JEsu Christi. Nu / þar ed heiløg Ritning høndlar um̃ so mikla og veglega Hlute / hvad kañ heñe þa jafnt edur samlykiande ad kallast / af øllu þvi / er synduger Meñ hafa Mætur a. JEsus sagde vid Kviñuna i Samaria / Ef þu visser Guds Giøf / og hvør sa være / er vid þig seiger : Gief mier ad drecka / þa munder þu bidia hañ ad gefa þier lifande Vatn / Joh. 4. Eñ eg vil seigia: Gud giæfe / Meñ þecktu Gud vid sig talande i heilagre Ritningu / þa mundum vier fwsare vera ad drecka af hañs Nadar Strammum / er þar wt af flioota. Hvør hefur kieñt oss ad þeckia Gud vorn Skapara ? Hvør hefur Opeñberad oss hañs Vilia ? Hvør hefur vysad oss Veigeñ hønum epter ad fylgia ? Hvør hefur uppløked vorum Augum ad vier þecktum Syndena ? Hvør hefur synt oss hvørneñ vier ættum ad blydka Gud nær hañ reidur er og fa heñar Kvittun ? Hvør hefur Opeñberad oss Leindardoom Heilagrar Guddoomsins Þreñingar / Dyrd Fødursins / Elsku Sonareñs / Afgiafer Heilags Anda ? Hvør hefur synt oss þad sem marger Konungar og Spameñ gyrntust ad sia / og sau þad ecke? Luc. 10. Þad sem huled var fyrer Spekingum og Vitringum / eñ nu er Opeñberad Smælingium ? Matth. 11. Hefur ecke hiñ Naduge Gud oss allt þetta auglyst og fyrer eckert gefed i heilagre Ritningu? fyrer siñ Eingieteñ Son sem er i hañs Skaute / Joh. 1. Af þessare andlegu Fehirdslu audgade Jesus Lærisveina Johañis / þegar þeirra Meistare sende þa til hañs / ad frietta hañ ad / hvørt hañ være sa sem koma skyllde / edur ættu þeir eins añars ad vænta / ecke i þeirre Meiningu / ad Johañes visse þad ecke sialfur / þvi hañ hafde adur vid hañ talad / Matth. 3. helldur til þess / ad þeim hialpad yrde i þeirra Andlegu Fæfræde / Hvad hiñ goode Meistare JESus giørde med þvi Moote / ad hañ vysar þeim til Verkaña sem af hønum giørdust / og under eins til Ritningaña sem um̃ Messiam spadu / og þo ad hvørt eitt af þeim Kraptaverkum sem hier standa i Gudspiallenu / sie noog til ad vitna þar um̃ / ad hañ Guds Son ur være / þar Gud er alleina sa sem Dasemdar Verkeñ giører / Psalm. 72. Þa er þo eckert þeirra sem so berlega vitne um̃ Embætte Messiæ / so sem þad sydarsta er hier stendur. **Fatækum Verda Gudspiølleñ Bodud.** Hvør Blessud Ord vier villium i þetta Siñ oss fyrer Hendur taka / og af þeim fierdeilis Tveñt Hugleida. Sem er. 1. Um̃ þa Fatæku er hier nefnast. 2. Um̃ þad Evangelium er þeim bodad verdur / Med þeim Lærdoomum er þar af leida.

Þu Myskunsame goode Gud / sem oss hefur med Kloose þyns Sonar Evangelij / vysad hiñ rietta Veg Saluhialpareñar / Vertu i Verke med oss / ad vier þetta framkvæmt gietum / þynu Nafne til Dyrdar / eñ oss til Eilyfrar Velferdar / A M E N.

# Vtleggingeñ.

FAtæker/sem hier nefnast/eru ecke alleinasta þeir/ sm̄ vantar Audlegd Heims þssa/helldur z aller þeir/ sm̄ a einhvørn Hátt eiga vid bagañ Kost ad bua. David var rijkur Konungur/z hafde Aura Nægter/þo seiger hañ/Ps.9. Myskuna mier/og lijt a Fatækt mijna. Nu kuña Meñ þo ecke ad mootseigia þvi/ ad vor Frelsare/ a medañ hañ umgieckst hier a Jørduñe/ hefur sier i Lage utvaled hina Fatæku og Audvyrdelegu fyrer Heimenum. Sialfur var hñ i Fatækt aleñ/hñs blessud Mooder fieck eckert añad Rum i Giesta-Herbergenu/ eñ eirn Stall til ad fæda hañ i Heimeñ/Luc.2. sem ea allra Hluta Valld/ bæde a Himne og Jørdu. Hañs Foostur-Fader var eirn Trie Smidur/ Matth.13. sem nærde sig af Handbiørg siñe. Hañs Læresveinar voru Fatæker Fiske-Meñ. Flestaller þeir ed hañ umgieckst med hier a Jørduñe/voru Fatæker og umkomulitler. Skamast þuu ecke þess vegna Fatæktareñar/ Christeñ Madur/fyrst hñ hefur hana utvaled/ sm̄ ea þo allt Sylfur z Gull/ z øll Dijreñ i Skoognū/Ps.50. Ærleg Fatækt/ er heilagur Hlutur/ þar hañ hefur vijgt hana/ sem eirn er Heilagur/z þo alleina rijkur. Fyrerlijt og ecke Fatækañ/þu sem Audugur ert/ þvi þad er ad forsma hañs Skapara/ sem giørdest Oreige þiña vegna. Edur þvi skylldu Meñ þañ Ovyrda / er Gud hefur so mikels virdt/ad hñ hefur fyrer hñ þijndt/z læted hønū sitt Evangelium opeñbera? Eñ hvar fyrer mun vor Frelsare seigia hier/ Ad Evangelium sie Fatækū bodad? Sañlega/fyrst þess vegna/ad Johañis Læresveinar þeckia mættu/ad Spadomur Esajæ 61. uppfylldur være. Eñ Guds Ande/ sm̄ þ Esajam talade/hefur giorla fyrer sied/ ad ei mundu þr marger veida/ er Christū medtæke/sm̄ lifdu i Velgeingene Heims þessa/so sem Raun gaf Vitne. Skule Meñ og Sañleikañ seigia/ þa kiemur Fatækteñ betur samañ vid Christs Evangeliū/eñ Rijkdomureñ. Hañs Rijke var ecke af þessum Heime/Joh.18. og þvi er ecke Von til/ ad þeir müne vel skipast under hañs Stioornan/ sem hafa Gull-Hnotteñ fyrer sitt Athvarf/og ei vilia af añare Sælu ad

seigia/

seigia/eñ Audæfū Heims þssa. Þar fyrer sagde JEsus fordū Daga
um̄ hiñ Rÿka Yngis Mañ/ ad hægra være Ulfalldanum ad ganga i
giegnum Nalaraugad/eñ rÿkum Mañe iñ i Himnarÿke/Matth. 19.
Ecke þess vegna/ad hñ rÿkur var/helldur af þvi hñ angradest þegar
DRottenñ sagde ad hñ skyllde giefa Eigur sÿnar Fatækum og fylg-
ia sier epter. Ja/ sañlega a Fatækt og Armoodur betur vid Guds
Evangeliū/eñ Rÿkdomur mikell. Þvi seiger ꝛ Jacob Postule/Cap. 2.
Heyred/ Brædur mÿner Elskuleger / Hefur ei Gud utvaled Fatæka
Heims þessa/ad þeir verde Auduger i Truñe og Erfingiar þess Rÿk-
ie/ er hañ heited hefur þeim / er hañ elska. Eñ þar er nærsta hætt
vid / ad þeir mune ecke hafa mikla Ast a Gude / sem astunda miked
Aura Safn. Hvar fyrer Paulus seiger/ad þeir sm̄ rÿker vilia verda/
þeir falle i Freistingar og Snørur / og margar Gyrnder skadlegar og
Heimskulegar / sem steipa Mañenum i Fordiørfun og Olucku/ 1.
Tim. 6. og hier kvedur so ramt ad/ ad Endurlausnareñ seiger: Þier
gieted ecke under eins Gude þioonad og Mamona/ Matth. 6. og þvi
verr/hvad morg eru þau Dæmeñ/ad Meñ elska meir Akneyte sÿn og
Bugaida/ eñ Drottenñs Kvølldmaaltÿd/sem þo er øllum tilbooded/þar
fyrer lætur hañ Blindum/Høltum og Vønudum samañsafna/Luc.
14. Vier erum Ahyggiusamer eins og Martha/ꝛ mædunst i mørgu/
eñ fæter hyggia ad þvi/ ad eitt er naudsynlegt / edur ad utvelia þad
gooda Hlutskipted/ eins og Maria/ Luc. 10. edur ad hafa Þiaaning
med Guds Foolke/helldur eñ Ægyptalands Audæfe/ eins og Moyses/
Hebr. 11. Eñ þott ad þessu sie nu so vared/munu þa aller utelokader
fra Evangelio/ þeir ed rÿker eru/ eñ hiner aller iñtekner ? Fiærre fer
þvi. Abrahami hafde Gud giefed Gull og Sylfur / Þræla og Am-
battter/Ulfallda og Asna/Naut og Saude/Gen. 24. og þo kallast hñ
Fader Truadra/Rom. 4. og þad var hønum til Riettlætis reiknad/
ad hañ Gude trude/ Rom. 4. og þvi Evangelio er Gud hønum sialf-
ur bodade / ad i hañs Sæde skylldu blessast allar Þiooder / Gen. 22.
Job var Rÿkismadur / og var hañ þo Guds Vinur/ Job. 1. og 42.
David/Josaphat/Ezechias ꝛ Otal fleire/ J Gamla Testamentenu
voru

voru Magtar Menn / og þo eru aller þeir fyrer Evangelium Truar-ennar holpner ordner. Og ad Menn vite ad þad ecke ødruvijs er i Nyia Testamentenu/ þa er þad alkunugt/ ad Nicodemus var eirn Høfdinge Gydinga/ þo kom hann til JEsum a Nattarþele/ og þadde Undervijsun af hønum/ Joh. 3. Jairus var Samkundu Høfdinge/ þo leitade hann Christi Hialpar / Marc. 5. Umm Hundrads Høfdingiann sagde JEsus sialfur / ad hann hefde ecke funded þvilijka Tru i Israel / Matth. 8. og hefur hann enn Efa eingenn Smælinge vered/ þar hann uppbygde Gydinganna Samkundu / Luc. 7. Johanna Hustru Chusæ er var Raadsmadur Herodis/ Luc. 8. hefur vered rijk Kona/ þo trude hun a Drottenn. Joseph af Arimathia var eirn Raad-Herra og Audugur/ þo var hann Læresveirn Christi / Matth. 27. Cornelius var rijkur / þo vottar Eingellenn umm hann / ad hanns Bæner og Olmusu-giørder sieu uppstignar fyrer Gud/ Act. 10. Dionysius Areopagita/ var Raads-Herra i Athenuborg/ Act. 17. Paulus Sergius var Hyrdstioore/ og þo lietu bæder þesser skijrast/ og tooku Christne af Paulo/ Act. 13. Og hvør kann øll þvilijk Dæme upp ad telia ? Og so sem ad ecke eru aller Rijker þessare Guds Nadar fraskilder / so verda og ecke helldur aller Fatæker hennar hluttakande. JEsus læknade ecke alla Halltla edur Blinda/ so hefur hann ecke helldur giørt alla Fatæka Sælu holpna/ jafnvel þott hann fyrer alla lided hafe. Fiærre sie þvi ad Fatækten kunne nockrum ad afreka Himnarijke/ fyrer sialfa sig. So sem Gud hefur bølvad þeim er rietlláter þann Fatæka fyrer hanns Fatæktar saker/ og afeller hinn Rijka fyrer hanns Rijkdoms Skulld/ So giører hann og sialfur hvørugt i sijnum Riettlaata Doome/ þvi hia hønum er eckert Manngreinar Alit/ helldur a øllu Folke sem giører hanns Vilia hefur hann þocknan/ Act. 10. Ad sønnu er Rijkdoomenum hættara enn Fatæktenne/ enn so sem margur/ þvi verr/ brukar Audæfenn til Ohofs og Drambseme/ til ad underþryckia hinn Volada og Lijtelmagnann/ so er og Fatæktenne ei helldur alltijd Ohætt/ og þvi afbad Agur hana/ ad ei neyddest hann til ad stela/ Prov. 30. Hvortveggia þitta er epter þvi sem med þad er høndlad. Olmusugiørder Cornelij voru Gude eins þeckar/ Act. 10. og somu


Penings-

Peningar Eckiunnar/sem lagde meira i Guds Kistuna af sijnu Fatæk doom/ enn aller hiner Rijku/Luc. 21. Þar eru Fatæker sem ecke vilia erfida med Hondunum/og læra þui ad stela. Þar eru Fatæker sem øfunda hina Rijku/ formæla þeim fyrer aungva adra Søk enn þa/ ad Gud hefur þeim meira lænad/ hvør þo giører bæde Fatækann z Rijkann epter Velþocknan sinne/ Prov. 22. Svijkia þa i allre Hondlan/ meina ad þeir so giøra meige ad Saklausu/ hælast þar um i sinn Hoop / hialpa ødrum til ad breyka þannen/z kalla þvilijkt ad giøra Kiærleikans Verk/so sem hinn Rijke eige aungvann Riett a sier/nema þann er hann nær med Ofbellde. Þeir una Fatæktenne illa/og stunda med øllum Nætte/ med Riettu z Raungu ad drijfa hana fra sier. Mumu þetta vera þeir Fatæker er Jesus hier um talar i Gudspiallenu/Brædr mijn' / lænngt er fra þvi/ helldur þr ed Fatækkena og allann annann Guds Kross med þolenmæde lijda/ sa ed lætur sier nægia med sinn deilldann Verd. Gud telur ecke Peninga þijna/Christenn Madr/helldur mæler hann þitt Hugarfar/hann er aungvann veigenn riettelega Fatækur/sem giarnann villde taka allt fra øllum ef hann mætte/jafnvel þott eckert hafe hann/eins og sa er ecke rijkur/sem vill meira hafa/þott hann hafe alls Nægter/ So er og hinn ecke Fatækur fyrer Gude/ er med Hiartanu gaper yfer øllu þvi hinn Rijke a/ hinn Rijka kann og ecke ad skada hans Rijkdoomur/ef hann brukar hann Gude til Dijrdar/ z Naunganum til Gagnsmuna/sa ed ecke treystter uppa Oriettindenn edur Ranglæted / edur helldur sig til þess sem ad aungvu er neitt/ Vilie hønum Rijkdoomur til/ þa fester hann ecke Hiarta sitt vid hann/ Ps. 62. Hann reiser hinn fallna/styrker Mal Eckiunnar z hins Fodurlausa/upphefur sig ecke i Hiarta sijnu/ helldur fellst a Jacobs Rad/er hann seiger Cap. 1. Sa sem rijkur er/ hrøose sier i Læging sinne. Og fyrer þui ad Gude hefur þocknast marg ann audugann ad giøra/til ad audsijna i þvi so sem øllu ødru sijna Giæsku vid Mannanna Sonu/enn annars veg' er nærsta hætt vid/ad Audurenn sem er fagr meige blinda Mannsins Hiarta/þa gior' St. Pall Rad fyrer þeim sem rijker eru i Christelegre Kyrkiu/1. Tim. 6. (So lænngt er fra þui ad þr sieu fra Evangelio utelokader)seigiande. þeim sem rijker eru i

Ollo

Wlld Þiiare/Predika þu ad þeir ecke metneſt i Niorlu/ og treyſte ecke a Audæfeñ/helldr a hiñ lifanda Gud/ ſm oſſ alla Hlute ønægianlega giefur til Notkunar/ad þr ſieu goodgiarner/ad þeir ſieu ryker i goodom Verkū/ ſieu giafmillder og fuſer a ad medbyta/ ſafnande ſialfum ſier goodum Grundvelle til hiñs epterkomanda/ſo ad þr hreppe eilyft Lyf. Fare nu nockur þeſſum Poſtulañs Rꝛadū fram/þa er ſo langt fra þvi ad hñ fare hluttlaus af Guds Velgiorningū i Evangelio/ad hñ hefur meire Ordſok z Efne til ad giora þad Gud hefur i Evangelio boded/helldur eñ hiñ ſm ſnaudur er/eda hvad er þad ad Chriſtur ſeiger/ad ei ſkule Vatnsdruckur Olaunadur vera i Læreſveins Nafne giefeñ? Matth. 10. Hvad er hitt er hañ bydur? Ad Meñ ſkule giora ſier Vine af hinum ranglaata Mamona/ ſo ad þeir medtake oſſ i eilyfar Tialldbuder/ Luc. 16. Allt er þetta til þeſſ ſagt/ ad Madureñ lockeſt med Guds Nadar Fyrerheitum/til ad dyrka hañ med hñs Gaafum/ og Naunganū ad gagna/eñ ef odruvys er/ þa klynger þar og oñur Bialla/hun læter a þeñañ Natt/ hia Luc. 6. Vei ydur ſem ryker erud/ þier hafed ydar Huggun uttekeð. Og Jacob talar nockud ſkoriñordt þar um Cap. 5. ſeigiande: Nu vel þier Auduger/grated og veined yfer Nørmungū ydar/ ſm yfer ydur koma munu/ ydar Audæfe eru fueñ / ydar Klæde eru uppeteñ af Møl / ydar Gull og Sylfur er rydgad/og þeirra Rid vitnar a moote ydur/ og mun uppeta ydar Holld ſo ſm Elldur/þier hafed geimt Fieſioodeñ til hiña ſydurſtu Dagaña/ Sioed Laun Verkamañaña/ſm hafa ſleiged ydar Lønd/er þier hafed iñehallded/þau hroopa/Hroop þra er yrkt hafa/er iñgeinged i Eyru Drottenis allsheriar. Þañ veg hefe eg nu ſynt/Brædr myner/ ad Ryk domr z Fatækt eru Gude jafnkiær/þegar mz hvortveggia er riettelega fared. Þvi vil eg þſſ ei dilia/ad eg hygg ad Frelſareñ i Þyſa Dags Evangelio iñebynde þa i þyſu Orde/ſm hñ talar um/ Matth. 5. ſeigiande: Sæler eru Andlega Volader/þvi að þra er Guds Ryke. Þetta ſyneſt rꝛada meiga af ſialfū Spadome Eſajæ 61. til hvørs ad Frelſareñ vyſar Johañi i Andſvare ſynu. hvør Spadomur ſo hlioodar. Ande DRottenis er yfer mier/af þvi hañ hefur ſmurt mig/hñ hefur ſendt

ſendt mig ad boda Evangeliū þm̄ Nꝛoogværu/og ad binda vid þa ſm̄ i
Hiørtū eru Sundurknoſader. Þetta ſkilſt mier ad vera ſama og And-
lega Volader/Matth. 5. Þad eru þeir ſm̄ ad til þeſſ fiña/ad i þeim/
þad er i þeirra Holdde býr eckert gott / Rom. 7. Þeir ed þeckia ad
þeir hafa Skort a þeirre Rꝛooſunneñe/ſm̄ fyrer Gude gillder/ Rom.
3. Þeir ed med hinum Fortapada Syne audmÿkia ſig fyrer ſÿnum
Fødur / Luc. 15. Þeir ed med Tollheimtu-Mañenum voga ecke ad
upplipta ſÿnum Augum til Himens / helldur beria ſier a Briooſt og
ſeigia: Gud vertu mier Syndugum Lÿknſamur / Luc. 18. Þeim ed
ſo eru Andlega Volader/og reikna ſig ſo ør-fatæka/af øllu þvi ſem
fyrer Gude gillda kañ/ad þeim miſlÿkar allt a ſiálfū ſier/þeim hygg
eg ad bæde fyrſt og ſÿdarſt tilheyre Evangeliū/hvørt helldur þeir rÿk
er eru edur Fatæker/þvi ſo ſeiger DRotteñ/Eſa. 66. A þañ lÿt eg
ſem Fatækur er/og ſundurkrameñ i Anda/ og ſkielfeſt fyrer Ordum
mÿnū. Þegar Guds Sonur kom i Heimeñ/ þa villdu Meñ af Verk-
unum Riettlater verda. Eñ hvad ſeiger JEſus þar um: Nema ydar
Riettlæte yfergnæfe meir eñ hiña Skriftlærdu & Phariſeaña/þa kuñ
ed þier ecke iñ ad ganga i Guds Rÿke/Matth. 5. Þa Tÿundudu þeir
Mintu Anis & Cumen/ þad var þeirra Guds þioonuſta/eñ gleymdu
þvi ſem meſt var i Løgmaalenu/Doomnū/Myſkunſemeñe & Truñe/
Matth. 23. Þa færdu þeir ſtoorar Foorner/ Marc. 7. a HErrañs
Altare/og ætludu þar fyrer Hoolpner ad verda. Eñ DRotteñ ſeiger
þar um̄/Eſ. 66. Hvør ed ſlátrar Nauke/þ er/ſ hñ ſlæe Mañ i hel/
hvør ſem offrar nockrum Smá-Fienade/þad er/ſem hañ Halsbrite
Hund/ ſo miked gillte ſu utvorlis Guds þioonuſtañ i hañs Augum.
Þar funduſt ecke marger/ſm̄ giørdu ſoddañ Jatning fyrer Gude/ſm̄
David/helldur hiet þad ſo: Eg þacka þier Gud/þad eg em ecke eins
og adrer Meñ/Luc. 18. Þeſſer þottuſt rÿker vera af goodū Verkum/
og jafnvel ødrum lána kuña/eñ hvad ſeiger JEſus vid Biſkupeñ i
Laodicea/þu ſeiger: Eg em full-rÿkur & hefe enſkis þørf/eñ þu veiſt
ecke/ad þu ert aumur & veſæll/blindur & nakeñ/Apoc. 3. og þ hygg eg
ſeigia mætte um̄ Mÿuga Mañs a þm̄ Døgum. Þar fyrer var Evan-
genum

gelli̅ Fatækū bodad/þar fyrer flycktust Tollheimtumeñ og Bersynd-
uger til JEsum / Luc. 15. Þar fyrer komu jafnvel Heidner Meñ a
hs̄s Fund. Þar fyrer sagde hñ til þꝛa Folks/Matth. 21. Sañlega
seige eg ydur/ad Tollheimtumeñ ⁊ Puta munu ganga framar ydur iñ
i Guds Ryke/ Þvi Johañes kom til ydar med Riettlætesins Veg/ og
þier trudud honum ecke/ eñ Tollheimtumeñ og Putur trudu honum/
eñ þier/ sem ad sau þetta/ ydrudust ecke epter a / so ad þier trýdud
honum. Og hosū vier nu so nockud heyrt þar u̅ / hvilyker ad þesser
Fatæk. sieu/sm̄ vor Frelsare talar u̅ i Andsvare sīnu til Johañem.

Nu vilium vier hier epter nockud u̅ sialft Evangelium tala/ sm̄
þeim bodad verdur. Meñ kyñu ad efast u̅ hvorneñ þad skilia eige
ad JEsus seiger hier alleina/Ad Fatækum sieu Gudspiolleñ bodud/
þar þo St. Paull vottar/Tit. 2. Ad Heilsusamleg Guds Nad sie op-
enber ordeñ øllum Møñum. Hier byriar oss þad ad athuga/ad jafn-
vel þott Christi Evangelium sie ecke nema eitt/ þa verdur þo eitt og
hid sama Evangelium med Tvøfølldum Hætte predikad/sa eine hef-
ur nockud af Løgmalenu alltyd med sier / og frambyᵭur Guds Nad
giefens veitta med Fororde/ef Meñ ydrast Syndaña og af þeim lat-
a. Hvilyk var su Predikun Christi/ er Marcus u̅ gietur/ Cap. 1.
JEsus kom i Galileam/predikande Evangelium Guds Rykis/ seig-
iande: Tymeñ er uppfylldur/ Guds Ryke er komed/giøred Ydran/ og
trued Evangelio. Þess hattar var Predikun Johañis Baptistæ/er
hañ sag e: Giøred Ydran/þvi Guds Ryke er nalægt. Øxeñ er sett
til Rootar Triaña/hvort þad Trie/ sm̄ ecke ber goodañ Avøxt/skal
uppheggvast og i Elld kastast/ Matth. 3. Hier er Oleum Evangelii
blandad med sterku Løgmalsins Vyne/ til Lækningar þm̄ sem medal
Rañingia hrasader voru/ Luc. 10. Med þssū Hætte a Evangeliū eñ
nu ad kieñast i Guds Søfnudū/hvar iñe ad bæde eru Vonder ⁊ Good-
er/Matth. 3. Og þañ veg byriar Guds Fiarsioodum ut ad skipta i
hemugeñ Tyma/ so hvør eirn fae þ honum ber/ þvi ei kom JEsus
til ad uppleysa edur afmaa/helldr til ad uppfylla Løgmaled/Matth.
5. Guds Nad i Evangelio hryn ecke a Mañenñ fyrer utañ eina lif-



ande

ande Tru: Vndan eirne lifande Tru verdur ad ganga søn Ydran; Son Ydran er alldrei nema med sønu Angre og Hiartans Trega: Trege Hiartans kan ecke i Manenū ad uppvekiast fyrer utan Þeck- ingu Syndarennar: Þecking Syndarennar frāmkiemur af Løgmalenu/ Rom. 7. hvar fyrer þott ad Løgmaled giøre øngvan holpen af sialfu sier/ samt Þioonar þ under Evangelium/ truudum Manne til Sålu- hialpar/ so þegar Bookstafuren hefur deydt/ þa lijfgar Anden / 2. Cor. 3. Þegar Løgmaled hefur sundur mared/ þa læknar Evangeli- um/ þegar Manneskian af Løgmalenu þecker ad hun hefur eckert an- ad forþienad en Helvijte / Guds Reide og eilijfan Dauda / þa tekur Truen vid hønū og giører hn̄ lifande aptur fyrer JEsu Dauda/ og endurnyar han til ad giøra framveigis Guds Vilia : Þessa Atferd brukade hinn ædste Biskup z mikle Hyrder Saudanna opkast til ad leida synduga Men til Guds Rijkis/ þa sømu brukudu og aller hns Þien- arar, um̄ alla Æfe. Noe var Rietltætis Predikare/ 2. Pet. 2. Na- than straffade David/ ædur en hn̄ huggade hn̄/ 2. Sam. 12. Atferd Johannis Baptistæ/ er øllum kunnug/ Matth. 3. So er nu þesse hinn almennelege Nattur og Mate til ad predika Evangelium/ sem aller Guds Ords Þienarar eiga ad vita z bruka. Annar er sa sm̄ tilhlijder angraudum og sturludum Manneskium/ þeim sem allareidu hafa þeckt Syndena/ og so eru af hennar Vm̄þeinkingu sundurmarder/ ad þr reik na sig Overduga Guds Nadar/ z so Farmader/ ad þeir vita ecke hvad þeir eiga af sier ad giøra: þeckia ad sønu Guds Nad/ en ofbijdur þo Stærd Syndanna: þeir vita ad Sool Rietltætesins JEsus Christus er þm̄ upprunnen/ Mal. 4. En fyrer þvi ad þeir treystast ecke til ad lyypta sijnum Augum til Himens upp/ Luc. 18. og ad Þoka Syndanna stilur a millum Guds og þeirra/ Esa. 59. þa fa þeir ecke i giegnum hana sied (fyrr en Heilagur Ande ridur Truarennar Smyrslum a þeirra Hiartans Augu) hvad fagurt hun skijn/ þeir þeinkia helldur a Stærd Syndanna/ en til Fiølda Guds Myskunsemda/ og i einu Orde [illegible] eigit/ þad eru þeir Fatæker/ er sier i lage um̄ talad er hier i Gud- [illegible] / þm̄ tilheyrer Evangeliū/ eintomur en Løgmalsins straungu Notana.

Notana. Hvar fyrer þviad Guds Ande hefur alla reidu verkad allt þ sm̃ Logmaled ecke ad verka/ sm̃ er Þeckingu Syndañá z saña Ydrañ/er af heñe kiemur. Þeim verdur bodad/ad hvar sm̃ Syndeñ yfergnæfe/ þar yfergnæfe Nꝍdeñ miklu framar/ Rom. 5. Þeim verdur sagt ad Mañsins Son: kom til ad kalla Synduga/eñ ecke Riettlꝍta til ydrunar / Matth. 9. Þeim a ad Predika/ ad Blooded JEsu hreinse þa af øllum Syndum/ 1. Joh. 1. Og þo ad þeirra Synder sieu raudar sm̃ Blood/skule þær eins hvijtar og Snioor verda/ Esa. 1. Þeim seiger David/ Ps. 34. Nꝍlægur er DRottеñ þeim sem sundurkramder eru i Hiørtũ z Harmþrungner i Anda/ til þra seiger Esaias 55. Heyred þier sm̃ þyrster erud/komed til þessara Vatna/og sꝍ ed aungvañ Pening hefur/ komed/ medtaked og snæded. Komed seige eg og fꝍed Okeypis og fyrer eckert/bæde Vijn og Mioolk. Til þeirra hroopar sialfur JEsus / sem bored hefur Synder Veralldareñar / Matth. 11. Komed til mijn aller þier sm̃ erfided og Þunga hꝍader erud/eg vil ydur endurnæra/til alls þessa seiger øll heiløg Guddomsins Preñing/Amen. Ezech. 33. Þier seiged/af þvi ad vorar Yferkrodslur og Synder liggia a oss/ Þar fyrer visnum vier upp i þeim/hvørneñ skylldũ vier meiga lifa/ þa seig þeim: so sañarlega sem eg life seiger DRottеñ/ þa vil eg ecke Dauda hiñs Ogudlega/ helldur ad hañ snue sier og life. Ecke eru þss Dæme/ad Fader Myskunsemdañá hafe nockurn þañ fra sier reked/ sem til hañs komed hefur/ Joh: 6. Þetta er Evangelium Fridarens/ sem hier bodad verdur/ Esa. 52. Lꝍt þvi ei syndugur Madur þijna Saalu vera Orolega i þier / þvi þu hefur Frid vid hñ feinged/hvørs Ovinur þu varst/ þegar hñ gaf siñ Son i Daudañ fyrer þig / Rom. 5. Þad skiedur hia goodum Konungum/ nær þm̃ fꝍdist eirn Sonur/ad þr giefa einhvørn Bandingia lausañ/ Eñ Gud Fader liet hroopa til allrar Veralldar i sijns Sonar Fædingu/ Fridur a Jørdu og Møñũ goodur Vilie/ Luc. 2. Þetta er Evangeliũ Fagnadarens/ Luc. 2. þvi Einglarner sungu/Eg boda ydur mikeñ Føgnud/þañ er skier øllu Folke. Lꝍt þier þvi ecke so Ogna Synder þijnar/þolt þær yfrid margar sieu z stoorar/ad þu ecke under

eins

eins gledtest i Gude Heilsugiafara þijnum/ Luc. 1. Meire Glede er i Himnenum/ seiger JEsus/ yfer einum Syndara/ sem Ydran giør er/ helldur enn yfer niju og nijutiju Riettlætum/ Luc. 15. Nu fyrst ad sialfur Gud og hans Heilaget fagna so miøg þijnu Apturhvarfe/ þvi skyllder þu þa hryggur vera. Þetta er Evangelium Guds Nædar/ Act. 20. z Embætte Forlijkunarennar/ 2. Cor. 5. Enn þu hrædest øll þijn Verk eins z Job/ z veitst ad jafnvel þitt Riettlæte/er so sem nidlags Fat/ Esa. 64. Nu er þetta Nædarennar Evangelium/ i hvøriu Syndarannum verdur frambodenn Næd ut af Næd/enn ef þ er af Næd/ þa er þ ecke af Verkunum/seig^r Postulenn/Rom. 11. ÞijnVerk eru vond/ enn þetta er þo Evangelium goodra Hluta/Rom. 10. Þitt Hiarta fordæmer þig/enn Johannes seiger þo/ad Gud sie meire þijnu Hiarta/ og vite alla Hlute/1. Joh. 3. Veit hann alla Hlute/ þa veit hann z þ/ ad þu ert Andlega voladur/þvi vill hann þier Himnarijked giefa/ Matth. 5. Eingenn er sa snaudur/ er hann a heillt Kongs Rijke/ þo er Syndarenn rijkare/ þegar hann a Guds Rijke/z verdur þa rijkastur/þegar hann er sem fatækastur/ og mattugur/ þegar hann veikur er eins og St. Pall/ 2. Cor. 12. Veit Gud alla Hlute/þa veit hann og þad/ad þig hungrar og þyrster epter Riettlætenu/ Matth. 5. Enn ef þu sem Vondur ert/ kant ad giefa Børnum þijnum gopdar Gjafur/ ef þu sem ert alenn i Synd / munder ei neita daudþyrstum Manne Vatnsdrykiar / mun þa Gud sem er alleina goodur/tefia leinge ad svala þier med Heiløgum Anda/þa þig langar epter hønum/ so sem Hiørtenn epter ferskum Vatne / Psalm. 42. Þu fellur i þær Synder er Gud hefur þier adur fyrergiefed/ og þad opt ar enn Einusinne/ þad er illa giørt/ Lat þig þ af Hiarta angra/og syndga ei þanenn framar/ad þu ecke uppauker Brunn Myskunarennar / Enn giæt þo þess ad þetta er Evangelium Forlijkunarennar/2. Cor. 5. Christur er Kiennemadur ad Eilijfu/ Ebr. 7. og situr til Fødursins hægre Handar/ til ad bidia fyrer oss Oaflatanlega. JEsus skipade Petre ad fyrergiefa sijnum Brodur Siøtijusinnum siø sinnum/ Matth. 18. Hyxa ecke ad Fader Myskunsemdanna mune vera sijdur nadugur/enn hann ætlar til ad þu skuler vera/ sierdeilis

sierdeilis þar hñ seiger : Vered Myskunsamer/ so sem ydar Fader er mysk-
unsamur/ Luc. 6. eñ bruka samt ecke þessa Guds Nad til Hyrduleisis
edur til ad giefa Holldenu Taum. Hæd ecke ad honũ sem Augad hef-
ur skapad og Eyrad hefur plantad / Psalm. 94. og er Hiartnañ
og Nyrnañ Rañsakare/ Apoc. 2. Þvi hañ lætur ecke ad sier hæda/
Gal. 6. Hafe Gud fyrergiefed þier margar Synder / þa vit ad þier
er þess vandara. Þeink a þañ Tyma / hvørsu ad Syndeñ var þier
Obærelig/ ædur eñ Gud huggade þig med Evangelio / hun mun þo
betur hyla / ef þar kyñe ad koma / ad hañ yrde fyrer Alvøru reidur.
Slockved ecke Heilagañ Anda seiger Pall Postule / 1. Tess. 5. Giæt
ad þvi syndugur Madur/ þvi kañskie/ hñ verde ecke so hægt aptur ad
kveikia. Siá nu ertu heilbrygdur sagde JEsus vid hñ/ sem hñ lækn-
ade vid Dyked Betesda/ syndga nu ei framar/ ad ei hende þig añad ver-
ra/ Joh. 5. Þu hefur eitt Siñ leiged vid Dyke Guds Nadar / og
Eingell hiñs mikla Rads hefur so hrært þad/ ad þier vard til and-
legrar Heilsubootar : Siá til ad þu ei aptur misser Heilsuna z verder
so ad kvarta um̃ med þessũ Mañe/ þad þu aungvañ hæer sem ad kaste
þier i Dyked/ þegar JEsus er fra geingeñ. Hafe hñ eitt siñ utreked
Diøfuleñ fra þier/ þa skallt varhuga vid/ ad ei hverfe Satan aptr/
og take siø Anda sier verre/ og verde so þitt hid Sydara/ argara hinu
Fyrra. Luc. 11. Nu hef eg so med fæm Ordum sagt/ Brædur myñer/
Hvilykt ad sie þad Evangeliũ/ sem Fatækum bodad verdur. Þeñañ
Veg gieck Jesus til ad leita ad þm̃ sem añad hvørt harmþrungner vo-
ru/ og sundurkramder i Mootlætenu/ edur Særder og Lemstrader af
Tilfiñingu Syndañá. Hñ hafde ecke mørg Ord vid hina Bersyndugu
i Simons Huse/ hñ took ordalaust heñar Forsvar a Hendur/ z sagde :
Ad heñe fyrergiæfust heñar mørgu Synder/ af þvi hun elskade miked/
Luc. 7. Hañ skipte ecke mørgum Ordum vid hina Bloodfallssiuku /
er gieck Bak til vid hañ/ og snerte Falld hañs Klæda/ hañ sagde all-
eina/ Vertu hughraust myn Dootter/ þyn Trua giørde þig heilbrig-
da / Matth. 9. Hañ hafde og ecke langordt vid hiñ Limafallssiuka/ er þeir lietu syga ofañ af Þakenu inñur fyrer hañs Blessadar


Fætur/

Fætur/ hañ reiste hañ strax upp med þessu Huggunar Orde: Vertu Hughraustur Sonur/ þier eru þijnar Synder fyrergiefn". Matth. 9. Hañ ællalde ei storum Hoor-Konuña/ til hvørrar hañ sagde: Kona/ hefur nockur fordæmt þig? En hun kvad nei vid/ þa sagde hin Eilijfa Giæska/ so fordæme eg þig ecke helldur/ far burt z syndga nu ei framar / Joh. 8. Eingeñ er þvilijkur Guds Velgiørningur / af øllum þm̃ Fiolda sem hañs Fødurleg Nææd hefur tiæd syndugū Mønum / sm̃ þesse/ Eingeñ Hungradur verdur so feigeñ ad eta/ eingeñ Þyrstur ad drecka/ eingeñ Nakeñ ad klædast/ eingeñ Þreyttur ad hvijlast/ eingeñ Vtlægur ad nææ Landsvist aptur/ eingeñ Sioohrakeñ Landenu/ eingeñ Siukur Batanum/ eingeñ Þræll Frelsenu/ eingeñ Fiøtradur Lausnēñe/ so sem Fætækur verdur Evangelio/ og eirn Syndare sem einskis Von a nema eilijfra Helvijtis Þijsla/ so sm̃ hñ verdur þvi feigeñ seige eg/ ad Guds Nææda Lioos skijn i hñs Hiarta/ so ad hñ sier med Truareñar Augū/ ad hañs Synder kvittar eru. O Herra JEsu Christe/ þu saklausa Lamb Guds/ sm̃ burtu ber allar Veralldareñar Synder/ Kieñ þu oss ad þeckia vorn Overdugleik/ Drag þu Skijluna fra vorū døpru Augum/ so ad vier mættū sjaa vora Bligdan/ straffa þu Syndena i oss/ med sañre Ydran z Angre Hiartañs fyrer allt þad Illa/ sm̃ vier fra Barnæsku vorre høfū drigt a moote þier/ og þa vier erum so nidurslegner i Hiørtū vorū/ og þijn volldugaHønd er oss so sterk ordeñ/ þa riett oss aptur þijna Nææda Hønd/ ad vier ei sockvum i Diup Orvæntingareñar/ helldur forlæt um oss þar uppa/ ad þu stert oss af Gude giefeñ til Riettlætis / til Helgunar og eilijfrar Endurlausnar/ 1. Cor. 1. Bænheyr þad HErra fyrer þijna Forþienustu/ A M E N.

## Fiorda Suñudag i Adventu.

Gudspialled/ Joh. 1. Cap.



Þeim Tijma Gydingar sendu af Jerusalem Presta og Levita/ ad þeir skylldu spyria hañ ad/ hvør ert þu? Og hañ medkieñdest og neitade þvi ecke. Og hañ medkieñdest/ seigiande.

tande : Eige em eg Chriſtur. Og þeir ſpurdu hañ eñ þa ad / Hvad þa? Ert þu Elias? Hañ ſagde/ ei em eg. Ert þu þa Spamad ur? Og hñ ſvarade nei/ ecke. Þa ſøgdu þeir vid hñ. Hvør ert þu þa? So ad vier meigū Andſvar giefa þeim er oſſ utſendu. Hvad ſeiger þu af ſialfū þier? Hañ ſagde: Eg em Hroopanda Rødd i Eydemørku/ greide þier Gøtu DRottens/ ſo ſem ſagde Eſaias Spamadur. Og þeir ſem ut voru ſender/ voru af Phariſeis. Og þeir ſpurdu hañ ad/ og ſøgdu til hañs: Þvi ſkyrer þu þa/ fyrſt þu ert ecke Chriſtur/ eige Elias / og eige Spamadur? Johañes ſvarade þeim og ſagde: Eg ſkyre i Vatne/ eñ ſa ſtood i Mided hia ydur/ hvørn þier þecktud eige. Hañ er ſa ſem epter mig mun koma / hvør ed var fyrer mig / hvørs Skoo þveinge eg em ei verdugur upp ad leyſa. Þetta ſkiede i Bethaa bara/ hinumeigeñ Jordanar/ þar ſem Johañes ſkyrde.

## Exordium.

I Þeſſu Heilaga Evangelio er Tvent ſem þarf ad athuga. Þad eina ad Johañes ſeigeſt ecke Elias vera/ eñ JEſus ſeiger þo um̄ hañ / Matth. 11. Ef þier vilied þad medtaka / þa er hañ Elias ſa ed koma ſkal / Og hia Mattheum ſeiger hañ/ ad Elias komeñ ſie/ Matth. 17. Þad er añad/ ad hañ neitar þvi / ad hañ ſie Spamadur / eñ hañs Fader Zacharias ſeiger þo um̄ hañ / Luc. 1. Og þu Sveinn munt kallaſt Spamadur hiñs Hæſta. Þetta ſyneſt hvørt ødru gagnſtædt vera / Eñ þeſſ byrtar ad gæta / ſem St. Petur ſeiger / ad Spadoomarner eiga ecke wt ad leggiaſt epter eigeñ Þootta / þvi þeir eru ecke ad Mañleguin Vilia til vor komner / helldur hafa Guds heilager Meñ tilknwder af Heiløgum Anda talad / 2. Pet. 1. Og þvi er eingeñ Vegur betre edur beþre til ad leggia þa wt/ helldur eñ ſiælf Ritningeñ. Hia Malachiam 4. ſeiger Ande Guds / Sia eg mun ſenda Eliam Spamañ til ydar / adur eñ kiemur ſa mikle og hrædelege Dagur DRottens. Sa Elias er nu Johañes i Raun og Sañleika / hañ gieck undañ Guds Foolke i Anda og Krapte Eliæ / ſo ſem Eingelleñ ſpade / Luc. 1. Elias var eirn ſtrangur Vandlætare i Guds Stad. Johañes var og Ydranar Predikare. Elias ſagde hinum Ogudlega Achab Konunge til Syndañā/ 1. Reg. 21. Johañes ætalde Herodem Konung/ Matth. 14. Elias upprætte ad miklu leite Afgudadyrkanena wr Iſrael / 1. Reg. 18. Um̄ Johañem ſeiger Frelſareñ / Matth. 17. ad hañ mune vidrietta alla Hlute. Elias bodade hiñ ſaña Guds Veg/ 1. Reg. 19. Johañes kom med Veg Riettlætesins/ Matth. 21. Um̄ Eliam er ſpad/ Malach. 4. ad hañ mune ſnwa Hiørtum Fedrañā til Barnañā/og Barnañā til Fedrañā/ og hañ ſama Spadoom þyder Eingell DRottens uppa Johañem/ Luc. 1. Og ad Meñ ecke efeſt um̄ þad / ad Johañes ſie Elias ſa ed koma ætte/ Þa ſkrifar Matth. 17. Ad þegar Lærefveinarner ſau a Fialls-

enu Eliam og Moisen tala vid JEsum / er hañ Forklaradest / þa hafe hañ bañat þeim ad seigia þa Syn nockrum / fyrr eñ hañ være upprisen / Eñ þeir spurdu: Phariseer seigia ad Elias eige adur ad koma / Eñ hañ sagde: Elias a ad sønnu adur ad koma og Lagfæra alla Hlute. Eñ eg seige ydur / ad Elias er allareidu komeñ / eñ þeir þecktu hañ ecke / helldur giørdu vid hañ / hvad þeim lykade. So mun og Mañsins Sonur verda pijndur af þeim / þa skildu Læresveinarner ad hañ talade vid þa um Johañem / seiger Mattheus. So er nu Johañes sa riette Elias sem koma atte / Eñ þo ecke eirn og hiñ same Elias Thesbiter / Og so sem Guds Ande seiger / Hos. 3. Ad þeir mune leita syns Konungs Davids / sem þo er ei añad eñ Christur. So heiter Johañes hier Elias / jafnvel þott hañ ecke Elias være. J ødru Lage neitar Johañes þvi / ad hañ Spamadur sie. Hier byriar ad athuga / ad Gydingar hafa an Efa vered i þeirre Villu / ad Gud munde ecke einasta senda Eliam Thesbiter i eigen Persoonu til þeirra / helldur og eirn añañ Spamañ lykañ Moisi / hvad þeir dreiged hafa af sialfs Moisis Ordum / Deut. 18. Er hañ sagde: Spamañ mun Gud ydur uppvekia af Brædrum ydar lykañ mier / hønum skulud þier heyra. Hvør Ord alleina eiga um DRottenn JEsum ad skiliast / So sem St. Petur þad wtleggur / Act. 3. Þad mæ og rada af Ordum Foolksins / er sagde um JEsum / Joh. 6. Þesse er sañarlega sa Spamadur / sem i Heimeñ koma skal / edur hvad er þad añad / sem stendur / Maccab. 14. Ad Gydingum og Kieñemøñum syndest ad Simon skyllde vera þeirra Hertoge æfenlega / þar til sa visse Spamadur kiæme / 1. Maccab. 14. Vilie Meñ og grandvarlega athuga Spurn Gydinga / þa er hun þañ Veg. Ertu sa Spamadureñ? Hvad talad synest um einhvøren vissañ Spamañ / sem þeir væntu epter / Eñ so sem Johañes þvi riettelega neitade / ad hañ være Elias epter þeirra Meiningu / So kvad hañ og rætt vid hinu med øllum Riette / ad hañ sa Spamadur være / sem þeir epter væntu / jafnvel þoott hañ være Spamadur hiñs Hæsta / so sem hañs Fader Zacharias adur sagt hafde / og meir eñ nockur Spamañ ad Christi Vitne / Matth. 11. Og er þetta ad seigia um Persoonu Johañis. Eñ af hañs Andsvørum / eigum vier Christelega Hoogværd ad læra. Hvar um eg framveigis tala vil. Þar til styrke Guds goodur Ande þyrer JEsum Christum / AMEN.

## Vtleggingeñ.

HJd fyrsta Andsvar Johañis / er hañ gaf Sendemeñum Gydinga / er þetta: EJge Em Eg CHRJSTur. Spurn þeirra var þañ veg. HVor Ert Þu? Og synest so sem hañ hafe ei viliad bijda epter þvi / ad þeir spyrde hañ ad / HVort Hañ CHRJSTur Være / þvi hañ hefur an Efa vitad / ad þess hattar munde Grunded vera / þar þ fortekur hañ þad strax / z seiger: EJge Em Eg CHRJSTur / og nam þar af sier / hvørsu ant hønum hefur þar um vered / ad

eingeñ

eingen̄ skyllde so mikla Nlute um̄ sig þeinkia/ hvar fyrer hn̄ giefur og ecke bundist sijdar i Gudspiallenu/ ad tala so Skorenordt hier um̄/ ad aller skilia mættu/er han̄ seiger: SA STood i MIded Nia YDur/ Hvoin Þier þecktud eige/hn̄ er sa sem epter mig mun koma/hvor og fyrer mig var / hvors Skoþveinge eg em ei verdugur upp ad leysa. Gudspiallamadurē sin̄ þetta rikar/hn̄ hefur so mørg Ord hier um̄/ seigtande : S. Ah MEDkiendist Og NEitade Þvi Ecke / og han̄ medkiendist / og sagde : EJ Em Eg CHRISTur. Og er þad audsært þar af/ad han̄ hefur a allar Lunder viltad gyrda fyrer þad/ ad eingen̄ skylde þvilijkar Ofgar i Hug sier leida. Þan̄ veg hafa aller Guds Elskendur Lynder vered/ad þeir hafa fyrerorded sig/ þa þeir a einhvørn Hatt hafa orded an̄adhvørt ad nalægiast Gud/edur og ad þeirra hefur under eins giefed vered og hin̄s stoora Konungs/sin̄ ollu rædur/bæde a Himne og Jordu. Heiløgum Johan̄i var þetta nærsta Attgeingt ad blygdast fyrer sijnum Gude og Skapara. Þegar Guds Mooder Maria heimsokte Moodur hn̄s Elisabeth Frændkonu sijna/ er hun var Oliett ad hønum / þa fagnade hun hen̄e a þessan̄ Hatt: Hvadan̄ kiemur mier þad/ad Moder DRottens mijns kiemur til mijn? Luc. 1. Eins var sialf Maria Skape faren̄/ er hun sagde til Eingilsins. Eg em Ambaatt DRottens/verde mier epter Orde þijnu. Abraham visse ei hvad hn̄ ætte af sier ad giøra/þegar DRotten̄ vyrdte han̄ Vidtals/þvi sagde hn̄: Eg villde nu giarnan̄ tala vid DRotten̄ Gud/þoit eg sie Dupt og Aska/Gen. 18. Eg vil ei þar um̄ tala/hvor su Postular DRottens vorduft allre þeirre Lotningu/ er adrer syndinger Men̄ villdu veita þm̄/þa þeir kiendu JEsu/edur giørdu Krapta verk i han̄s Nafne. Þegar Cornelius fiell til Foota Peturs / þa reiste Postulen̄ han̄ jafnoft a Fætur/og sagde: Statt upp/eg er eirnen̄ Madur/Act. 10. Þegar Folked i Listris sagde ad Guderner væru Mønnum lijker ordner/ og til þeirra ofan̄komner/ Act. 14. af þvi ad Pall reiste þan̄ a Fætur med einu Orde/er Fothrumur var fra Mod ur Lyfe/og villdu hafa fært hønū og Barnabæ Foorner/ þa sundurrifu þeir sijn Klæde/ stucku in̄ i Man̄þrøngina/hroopudu og søgdu:

 þier

Þier Menn/hvar fyrer giøred þier þetta/ Vid erū Menn/ sama Breisk=
leika og þier underorpner. Ja/ ecke einasta Guds Heilager Menn og
? stvinet/hafa þann veg blygdast fyrer Gude/ sem meir enn skylldugt er/
h:llour og hafa hanns volldugu Einglar hid sama giørt. Þad maa
medal annara lesa/ Apoc.19. Þegar Eingellenn kalade vid Johannem/
þa skrifar hann a þennan Hatt. Og eg fiell fram fyrer hans Fætur ad
tilbidia hn/ z hn sagde vid mig: Sia ad þu giører ei þtta/ eg em þinn
Medþienare og Brædra þinna/þeirra er hafa Vitnisburdenn JEsu/
tilbid þu Gud. Hafe nu Guds heilager Menn z Postular/ hafe Johann
es Baptista/ um hvørn Sannleiks Munnurenn vitnar/ad eingenn sie mei=
re af Kvinnune fæddur/ Matth. 11. Hafe hanns blessud Mooder/ sem
hina mestu Tign hefur af Gude þeiged allra syn̄dugra Manna / sem
borner eru i þennan Heim: Hafe Guds heilager Einglar/sem eru all=
deilis aan Syndar: Hafe þsser/seige eg/so audmiykt sig fyrer hns H:a
tign z Vellde/hvad miklu framar byriar þier þa syndugur Ormur/ad
audmiykia þig under volldugа Guds Hønd/sm allur ert i Synd/ z ecke
eitt Augnablik lifer aan Syndar i hns Auglite. Hafe Sonurenn giørst
Fodurnū hlydenn allt til Daudans/jaa/allt til Krossens Dauda/ Phil.
2. Ef St. Pall/ 1. Cor. 15. seiger/ ad a sydarsta Deige/ þegar hn
afhender Rijked Gude z Fødur/þa mune hn (þo epter Manndoomenū)
Undergiefenn verda hønū/ sem alla Hlute giørde hønū undergiefna/
ætler þu þa ecke ad skammast þijn ad standa upprietstur i hns Aug ite/
þu sm optsinnis ert Ohlydugur/Yverbrotenn/Toomlaatur/z forsmaer
hns miklu Myskunseme/ sm Daglega er nij z fersk yfer þier a hvør=
ium Morgne/ Thren. 3. Hvar fyrer hafa Guds Heilager so audmykt
sig fyrer Gude ? Þvi þeir elskudu hann. Þvi hafa þeir hann elskad ?
Þvi þeir þecktu hann. Þvi þecktu þeir hann? Þvi þeir lærdu fyrst ad
þeckia sialfa sig. Hvad þecktu þr hia sialfū sier? Eckert nema Synd
og Volæde. Hvad hia Gude? Eckert nema Dyrd og Vegsemd. Giør
slijkt hid sama og muntu finna/hvørsu ad þu ert minna enn ecke i Guds
Auglite. Ber þig samann vid hann/þott nockud Olijkt sie samann ad be=
ra/og nærsta sundurleitt/giør þ þo/þvi slykur Samburdur mislijkar
hønum

hønū ecke/ef hn̄ mætte duga þier til ad kastast vid Eymd. þÿna/ z hn̄s Dyrdarfulla Hatign/ hvøria þo Daudlegur Madur allðrei kan̄ ad þeckia so, sem hun er. Judar spurdu Johan̄em ad/ HVØR ERT ÞV? Ef þu spur ad hvør Gud sie/ þa verdur ei svarad/ nema med han̄s eigen̄ Ordum: Gud er eirn Ande/ Joh. 4. þo ecke so sem adrer Andar/ helldur Fader Andan̄a/ Heb. 12. Og svo Dyrdlegur/ ad honum maa vid aungvan̄ Hlut samlykia/ Esa. 40. Vm̄ han̄ verdur ei nær komest ad tala/ en̄ med þeim Ordum/ er under eins medkien̄a Fatfræde vora til ad utmala hn̄s Dyrd/ sm̄ er/ ad hun sie Omælan̄leg/ Oendan̄leg/ Oran̄sakan̄leg og Outseigian̄leg. En̄ spur sialfan̄ þig ad/ Hvad ert þu? J Fyrstun̄e eckert/og sydan̄ Leir Jardar/ sem Gud skoop hin̄ Fyrsta Man̄ af/ Gen. 2. Gud er Eylyfur/ sa sem er/ og sa sem var/ og sa sem koma mun/ Apoc. 1. En̄ hvør ert þu? nockurskonar Gufa/er siest um̄ Hryd/en̄ hverfur sydan̄/ Jac. 4. Gud er Omælan̄legur/ han̄ uppfyller bæde Himen̄ og Jørd. Þad voktar Zophar af Naema/seigiande: Job. 11. Munfu med Huganum gieta komest ad Stærd hin̄s Almattuga/han̄ er hærre en̄ Himenen̄/og diupare en̄ Helvyted. En̄ hvør ert þu? Mæl sialfan̄ þig/sm̄ ert smærra Foota Leingd/ og megnar ecke med allre þin̄e Ahyggiu ad auka eirnre Alen þar vid/ Matth. 6. Gud er Alvitur/ aller Hluter eru berer og nakter fyrer han̄s Augum/ Hebr. 4. En̄ hvør ertu? Þu veitst ecke hvad a Morgun mune skie/ Jac. 4. Gud er Almattugur/ hia hønū er eingen̄ Hlutur Omattugur/ Luc. 1. En̄ hvør ert þu? Þu formatt ecke ad giøra eitt hvytt Haar svart a þynu Høfde/ Matth. 5. DRotten̄ er Riettlatur og goodur/ seiger David/ Psalm. 25. Og so sem han̄ er i sialfum sier/ so er hn̄ i synum Verkum. En̄ hvør ert þu? Þyner Þankar eru vonder i fra Vpphafe/ Gen. 8. og so eru þyn Verk/ þvi þar er eingen̄ sa ed gott giøre/ og ecke eirn/ Psalm. 14. Gud er San̄ordur/ øll hn̄s Bodord eru San̄leike/ seiger David/ Psalm. 119. Ef vier Otruer erum/ þa er han̄ trur/Sialfum sier kan̄ hn̄ ecke ad neita/ seiger Pall/ 2 Tim. 2. En̄ hvør ertu? Spur St. Pal ad/ han̄ mun svara þier/ Rom. 3. Verde

Gud

Gud Sañordur/eñ aller Meñ Ligarar. Hvad virdest þier nu syndug° ur Madur? Muntu ecke/þegar þu so helldur Reikning mille Guds z þijn/munt þu ecke (seige eg) fulla Orsok hafa til ad skamast þijn fyrer hañs Auglite/ sem þier so miklu mætkare/ miklu ædre/ miklu betre/ miklu Riettlætare er/og i einu Orde ad seigia/hia hvoriu þu ert minna eñ ecke ad reikna/Og þo ukañ allt þetta/ þa hefur hñ þig so Aumañ/ so Færmdañ/so Vondañ z Onoogañ sialfum þier um alla Hlute/upp ur Þreckunum hafed/ og sett þig i siins Sonar Ryke/ Col. 1. Eñ Ilsfelæckad hañ/ og giort þier ad ollu Samlykañ/ Hebr. 2. Ad þvi einu undañteknu er hañ var straffadur fyrer/eñ þu ert frelsadur fra/ sem er Syndeñ/ Hebr. 5. fyrer hvoria hañ er deyddur / Eñ þu fieckst Lijfgiof fyr° hñs Dauda. Þvi skyllder þu þa Aumastur allra skapadra Hluta Guds a Jordune/Skyllder þu (seige eg) skæra þig edr metnast i Hiarta þijnu/so sem værer þu nockud fyrer ukañ Gud/Og et miklu helldur med Audmyckt þijns Hiarta/þacka honū þess innelegar/ sem hañ hefur giefed þier meira Vit a ad þeckia þad/z meira til þijn lagt eñ allra añara. Eirn Guds Eingell hefur honū meira ad þacka fyrer hiñ minnsta Dropa hñs Giæsku/er hñ hefur til hñs lagt/helldur eñ allar skynlausar Skiepnur/fyrer oll Nætturuñar Giæde z Skop° un allra Hluta. Eñ þu syndug Mañeskia hef: meira af honū þegi° ed i hinum minnsta Nadar-Mola Andlegra Giæda/ helldur eñ allar Einglaña Hersveiter i ollu þvi sem ollū þm er tillagt Hvar þ? Þvi ad til þss/ad þu lifa skyllder fyrer Nad Guds/hefur hñ læted Son siñ ecke Einglaña/ helldur Abrahams Sæde uppa sig taka/ Hebr. 2. og giort þitt Holld sem hñ uppa sig took Einglunū so miklu ædra/ sem hañ hefur framar þeim ædra Nafn odlast / Hebr. 1. og þo læted hiñ lifanda Gud i mañlegu Hollde deya mañlegū Dauda/so þu mætt° Gudlegu Lijfe lifa/þvi hefur hñ so miklu meira til þiñar Upphefd° uñed eñ til Einglaña/ sem JEsum hñs Son hefur meira kostad ad endurskapa þig/ helldur eñ alla Einglana ad skapa/ þ þvi ættu hm so miklu meira ad þacka eñ þeir/sm hañ hefur meira uppa þig kost° ad. Eñ hvar med villtu honum þacka. ecke etur hñ Kiot Nafraña/
edur

edur dreckur Blood hiña feitu Brafia / Psalm. 50. Offra hønum Lofgiørdeñe/ og giallt hønum þijn Heit/þad er audmiukur Ande og sundurkramed Hiarta/hvørt hañ mun ecke fyrerlijta/ Psalm. 51. Þu kañt ad seigia/ Eg jafna mier ei samañ vid Gud / ei hef eg mig upp a moote hønū/eg veit/eg a hønū allt gott ad þacka/ og ef hñ vill Doom hallda vid mig/þa hefur hñ Vallo til ad kasta Lijfe og Saalu i eilijfañ Elld/ Matth. 10. Þu seiger vel/ þvi allt þetta er meir eñ satt / Eñ rañsaka Hiarta þitt vel / hvørt Hugur hefur alltijd fylgt Maale/ Hefur þu audmijkt þig so fyrer þijnū Gude sem byriad hefur/bæde med Orde og Verke? Ef hañ er þiñ Fader/ hvar er þa hañs Heydur? Giæt ad þvi JEsus seiger/Matth. 21. uñ þañ Son/ er Faderen skipade ad erfvida i Vijngardenum/ og hañ kvad ja vid/ eñ foor þo hvørge/ þad er ei noog ad nælægiast hañ med Vorunum/ ef Hiartad er lanngt þar fra. Vier seigiunst aller eiga ad elska Gud fram yfer alla Hlute / og þad er þ saña Audmyktar Merke ad elska hñ/eñ Gud næde hvørneñ þad efnt er/þar vier lætū off a Stundum alla Hlute skylldare vera eñ hañs Dijrd. Þegar Holldid og Andskoteñ freista þijn til Syndareñar/eñ þier kiemur þa i Hug ad Gud hafe þ bañad/samt hlijder þu Holldenu i þess Gyrndum/og lætur Syndena i þvi drottna / Rom. 6. Er þad ecke ad upphefia sig a moote Gude/ og meta framar þss Munad eñ hñs Bodord. Hvørier erum vier þa a medañ? Ecke Guds Þioonar/helldur Þrælar Syndareñar/þvi hvør hañ Syndena æfer/ hañ er Þræll Syndareñar/seiger JEsus/Joh. 8. Vier eigum ad hrædast og skielfast hñs Dgurlega Nafn/eñ Meñ vanbruka þad a Stundum/til ad Liuga/Stela og Svijkia. Hvørier erum vier þa? Þeir ad vijssu/fyrer hvørra Skulld Guds Nafn lastad verdur medal Heidingiaña / Rom. 2. Vier seigiunst vera skylldugir ad hlijda hañs Orde / og giøra þar epter / eñ Meñ daufheyrast þar vid/sitia under eitne Predikun hyrdulauser/ z ganga þadañ Avaxtar lauser/og sumū mæ valla þangad koma/ sm þad ek um Hønd haft. Hvad erum vier þa? Forgleymañleger Tilheyrendur/ eñ ei Giørendur Ordsins / Jac. 1. J Krosse og Mootgange siest allra best Audmyktek

myklest fyrer Gude. Sa audmyker sig riektelega under hans volldugu Hond/er kysser a Vond Drottens med þacklæte/þvi hn er hns sañur Læresveirn: En þar vill a Stundū nærsta misgafbera/þar Meñ eru Opolenmoder under Drottens Krosse. Sumer skioota sier undañ hans sæka Oke a allar Lunder med Oleyfelegu Moote/og leita þeirra Bragda er Gud bañad hefur. Er slijkt ad audmykia sig fyrer Gudez Fiærre fer þvi. Hvorier erū vier þa? Lijker þm̄ er lyda so sm̄ Þiofar og Mordingiar/edur þeir sem falla iñ i añars Embætte/ 1. Pet. 4. Þvi hvar er vor Audmykt fyrer Gude / ef vier vilium eckert þola hns vegna? Og so sm̄ vier erum nu skylldugar a allar Lunder ad audmykia oss fyrer Gude vorum Skapara/ So vill hañ og ei helldur ad vier skulū forsmaa vora Brædur i Heimenū/ þvi hvor hn̄ seigest elska Gud/eñ hatar siñ Broodur/ hñ er Liugare seiger Johañes/þvi ef hñ ecke elskar siñ Broodur/hvørn hañ sier/hvørneñ maa hañ Gud elska/ hañ hañ sier ecke / 1. Joh. 4. Nu er eckert Verkfære Kiærleikans handhægara eñ Lijtelæted/þvi þad verdur af øllum Elskad: Og med þvi dregur Kiærleikureñ alla til sijn/ þa sem ecke Kiærleikañ hafa / Þess vegna seiger Paulus um Dygd hssa/ Kiærleikureñ er ecke mikelatur/hñ þijkur ei upp/hñ leitar ecke epter þvi sm̄ hñs er/1. Cor. 13. Og sokum þess ad hañ visse/ad Lijtelæted var Band Kiærleikans/þa biþdur hañ Christnum Mønnum/ad þeir hafe hvør añañ sier i Virdingum ædra/Phil. 2. So hefur og JEsus læted øllum sijnum Læresveinum þad Bodord epter/Hvør sem vill stoor vera ydar a mille/hñ sie hiña Þienare/ Matth. 20. Hefde Johañes vered ægiarn Hiegooma Dijrdar/ þa hefde hañ ecke neitad þvi ad hañ Elias edur Spamadur være/þar hñ mætte þo hvørtveggia uñ sig segia/ Þviad þad Eina viknar Christur Matth. 11. um hañ / Eñ Añad hans Fader Zacharias/ Luc. 1. sem ædur er sagt/ Og allt Foolked hiellt hañ fyrer Spamañ/ Matth. 21. Eñ hañ villde a moote hvørugu taka/ so hañ giæfe Gude Einum Dijrdena. Ecke Olijkur i þessu sijnum Herra / hvørs Eingell hañ var/ Mal. 3. Hvør þa hañ var af hinū Skriftlærda kalladur goode Meistare/svarade hñ: Hvad kallar

þu mig Goodann? Eingenn er Goodur nema Gud eirn/ Marc. 10. Ecke neitade HErrann þvi ad hann Goodur være/ villde þo ecke þiggia þann Titel af hans Munne/ er hann so kallade epter sinum Pærnka/ þad er eins Goodann z Pharisæi voru/ hvoria Folked kallade Gooda/ af þvi þr gæfu so miklar Olmusur/ Enn Saducæos Riettlæta/ af þvi þeir gæfu eckert epter/ tooku ei helldur neitt ranglega fra neinum. Hvar til St. Pall sijnest lijta/ Rom. 5. er hann seiger/ ad valla mune finnast nockur sa ed þ Riettlætann deyr/ þvi kannskie einhvor finndest sa ed dæe fyrer hinn Gooda. Pann veg forsmaade Christus og hans Eingell Johannes sannsta Virdingu Heims þessa/ Og ei var St. Pall odruvijs lyndur er hann seiger/ 2. Cor. 12. Ef eg hroosade mier/ þa være eg þo eingenn Dare/ þvi eg skal satt seigia/ enn eg hlijfest vid þad/ so ad eingenn þeinke umm mig framm yfer þad sem hann sier mig vera/ edur heyrer af mier. Johannes seiger hier i Gudspiallenu: GReide þJer GOtu DROTTens. Ord þau eru tekenn af Esaja Spaadoms Bokar 40. Cap. þar ed so stendur: Þar er Rødd eins Hroopanda i Eydemørku/ Greide þier Gøtu DRottens/ og giøred slietta Vegu Gude vorum i Obygdenne. Þegar Menn ridia eirn Veg og giøra hann færann/ taka Menn i burtu Storgrijte z allar Ojøfnur so greidt verde umm ad fara. Osse og Hroke Veralldar þessarar eru Torfærur þær sem Guds Veg hindra i Mannsins Hiarta. Hvadann kiemur Strijd z Baratta Manna a medal? Hvadann kiemur Ofund og Ulfbud/ hvadann vex Agg/ Reide og Præta/ hvadann uppstijgur Agyrne z Fiedrættur/ hvadann framkiemur Mord og Mannslag/ hvadann er þad ad Menn tønlast og tiggiast innbyrdis/ þar til þeir umm sijder mættu verda uppetner? Zach. 11. Kiemur ecke allt þvilijkt af hinne bølvudu Drambseme/ er Satan innrætt i Manna Hiørtu? Hvørnenn a Zions Konungr ad rijda umm slijkann Veg/ þegar sa Drottnarenn kiemur til sijns Musteris? Mal. 3. sem er Mannsins Hiarta. Þeir breiddu sijn Klæde a Veigenn fyrer hann/ þegar hann sijdarst innreid til Jerusalem/ og dreifdu Kvistum Triana a hans Gøtu/ þad var Audmijktar z Fridar Merke/ þvi a og i burtu ad ridia Stoorgrijte Drambsemennar og Osslopans af hans Leid/ ecke med Lijkamlegum

Verkfærum/helldur med Guds Orde/um̃ hvørt Pall skrifar/ 2. Cor. 10. Ad Vopn Hernadar vorrar sieu ei Lÿkamleg/helldur kroptug fyr' Gude/nidurbriotande Hugrenningarnar/og allar Hæder sim̃ ad upphef iast a moote Guds Þeckingu: Eñ hvøriar munu þær Hæder vera? Þad eru medal añara Fioll Drambsemen'/þvi eckert motstrijd' saare Guds Þeckingu meir eñ Þeckingarleijse sijns eigen Overdugleika/ð er Moder Drambsemeñar. Þvi seiger Rødd Hroopandans/ad aller Dal er skule upphefiast/ og øll Fioll og Hælsar nidurþrickiast. Hvad er þad añad eñ þad sem Guds Mooder syngur i Lofkvædenu / Luc. 1. Dramblatum hrinder hñ af Stoole/eñ upphoof Lÿtelata. Og þokt ad þesse Hroopandans Rødd/spaie sier i Lage um̃ Guds Nad i Evangelio/og Lagfæring allra Hluta fyrer Christũ/hvørrar Frumkvødull Johañes var/þa ma eg þ vel heimfæra uppa þetta Efne/ þvi Fætækum/ þad er andlega Volutum z audmiukum i Hiarta verda Guds spiøllen bodud/z þ ecke sijdst vegna þeirra Orda er hier standa skømu sijdar i þessu 40. Cap. Esaia/a þeñañ Hatt: Þar er ein Rødd sem seiger: Þredika þu/og eg sagde: Hvad skal eg predika? Allt Holld er Hey/og allt þess Agiæte so sim̃ Bloom Akursins: Grased uppþornar og Bloomstred fellur af/þa Ande DRottens blæs a þad/ ja Folked er Hey. Hvar er þa seiged mier/hvar er þa allt vort Atgiørfe;og allt þad Meñ dramba af i Heimenũ? Er þad Audur og Rijkdomur? Fallvallt er þ/og giører margañ vondañ/þ ablast med Ahyggiu/eñ tapast med Sorg. Og nema Meñ giøre so sem Jacob bijdur þeim Rijku / Cap. 1. Ad hroosa sier i sinne Lægingu / þa er þad Volædenu verra. Er þad Meford og Virdingar? Eñ David seiger Madureñ blijfe þo ecke leinge i Heidrenum/ Þs. 49. og Þrældomur eru þau reindar. Er þad gøfugt Forelldre og Affpreinge? Eñ vier erum þo aller af Adam komner : Hañ var Vllage Guds ur Paradijs : Fyrer hvøria Synd/er oss alkuñugt/Gen. 3. Fegurd og Prijde Lijkamans/þ er fallevallt/þvi Bloomstrid fellur af seiger Esaias i 40. Cap. Eirn Siukdoomur fær þvi øllu um̃breitt: Þvi þegar þu liptar z Rottenn / þa følnar øll þra Fegurd/ fagur Bunadur og skrautleg Klæde/ Þs. 39.

Þad

Þad sagde eirn af þeim gømlu / ad være eins og ef Þioofuren̄ stærde sig af Snøruñe. Þrootkur og Styrkleike Lijkamans? Eñ Nesturen̄ er eñ þa sterkare/ þvi skylldu Meñ þa ecke hañ virda. Eñ hiñ Almættuge hefur ei Lyst a Styrkleika Nestsins/ edur a Footleggiū Mañsins: Nia Ð Rottne eru þeir vel þeckader/ sem hñ Ottast z til hñs Myskunar vona/ Ps. 147. Hvad er þa framar/ sem Maduren̄ kuñe so ad metnast af: Kuñatta og Vijsdomur er mest tignad i Heimenum/ og er hin ægiælasta Guds Giøf / eñ so er hañ bestur / ad hañ sie med Guds Otta friddadur/ þad vottar St. Jacob/ seigiande: Ef nockur er vijs / edur med Skynseme gæfadur medal ydar / þa auglijse hañ Verk sijn i goodre Vmgeingne med skynsamlegu Hooglæte / Cap. 3. Og hvad eru aller vorer Vitsmuner fyrer utañ þetta? Pæll seiger/ad þeir sieu Haalfverk/ 1. Cor. 13. Og hvad meira er/ ad þeir eru einskis verder / og jafnvel skadleger / nema þeim Guds Otte og Kiærleiken̄ fylge. Þvi seiger Postulen̄ eñ aptur/ 1. Cor. 8. Ef einhvør þykest nockud vita/ þa veit hañ þo eñ nu eckert/ so sem vita byriar/ Eñ ef nockur Gud elskar/ hñ er fæddur af hønum. Og þott ad Skynsemen̄ og Vitsmunerner sieu ein su hin besta Guds Gæfa / er hañs Giæska hefur sæmt oss med/ þa verdr heñe med Drambsemeñe so spillt/ad hun verdur Ovite argare/ þvi seiger Paulus/ 1. Cor. 3. Eingen̄ ville sialf añ sig. Ef nockur þykest Vitur vera medal ydar i Ölld þessare/hañ verde Heimskr so hñ Vitr verde. Þar skilst mier Postulen̄ meine/ad hñ skule giæta ad hvad lijted hñ veit/so hañ stære sig ecke/þvi Skynseme Verølldar þessarar seiger hañ/er Heimska hia Gude/ 1. Cor. 3. Nu þo ad allar þessar Guds Gæfur sieu harla goodar/ ef þær eru riett brukadar/þa er samt þess ad giæta/ad þad er ecke vort eiged/og hañ er frialst/sm̄ þad allt lienter/ad taka þad fra oss a hvoriū Tijma/sm̄ vier þad vanbrukum. Af øllu þessu sia um vier/ hvad lijted ad þad sie/ er da ledlegir Meñ bruka til Stærelætis / giætande ecke þess / ad Virdingen̄ ellter hañ/ sem hana flijr/ eñ flijr fyrer þeim hana ellter/ ef ei añarstadar/ þa hia Gude. Postulen̄ seiger til Gal. 6. Ef nockur þykest vera nockud/þar hñ er þo eckert/hñ viller sitt Hiarta/ Eñ ef

vier eckert erum/þvi vilia Men þa krefia þess/ so sem añarar Vita. Skulldar/ad vier sieum virdler af Mønnum. Ei seige eg þad/ad þeim skule ei Neidur veita / er Neidur heyrer / Rom. 13. þvi þad er Guds Bod. Nitt seige eg/ ad þeir sem vid eiga ad taka / skule ecke una þvi Illa/ þott af slijku meige bera a stunduñ/ þvi sa sem smætar fyrer Gude/ þad hañ eckert sie i hañs Auglite / og þad af Alvøru og Nræsnelauft/þa sie eg ecke ad hñ þurfe meir ad syrgia fyrer Virdingu sinne/ helldur eñ hiñ/sem ecke er eñ nu fæddur. Nia oss er eckert gott/þvi skylldum vier stæra oss? Nia oss er margt illt/þvi skylldum vier ei skammast vor? Oss kañ margt illt til ad falla/ þvi skylldum vier ecke jafnañ hrædder vera? Oss kañ siælfa margt illt ad henda/þvi skylldum vier ecke jafnvel hrædast oss sialfa og leggia af ad forlæta oss uppa þad sem eckert er? Ef vier smætum þad fyrer ødrum ad vier eckert sieñ/og meinum þad ecke/þa svijkium vier adra. Eñ ef vier meinum þad og þeckium þad sem vier vel meigum meina og þeckia/eñ hegdum oss ecke þar epter/þa svijkium vier siælfa oss. Gud sa sem er allt i øllu/ 1. Cor. 15. Nañ lijtelæckade sig þiña vegna / Syndugur Madur / og þu sem ecke ert neitt i neinu / Villt ecke brioota Odd af Oflæte þijnu hañs vegna. Gud/seige eg eñ nu/lijtelæckade sig til ad verda Madur/eñ Madurenñ vill þo ecke lijtelæcka sig til þess/ad verda eirn Ande med Gude. Þess meir sem þu audvirder þig fyrer Gude/þess meire verdur hñ i þier/ og þess stærre sem hñ i þier verdur/þess verdur þu stærre i hønum/þvi Gud mootstendur Dramblætum/eñ Lijtelætum giefur hañ Nad/seiger Jacob/ Cap. 4. Og hvad hellst sem stoort edur ægiætt kallast/þad er alleina stoort og ægiætt i Gude / og fyrer utañ hañ / allderlis eckert. Hvar fyrer Pæll seiger : Hvør hañ hroosar sier / Nañ hroose sier i DRottne/ 2. Cor. 11. Þar fyrer/ nær sa Guds Madur hefur uppkaled allt þad/er adrer reiknudu sier til Sylldis/ sem er/ ad hañ være Hebreskur eins og þeir / Israels Madur eins og þeir / Abrahams Sæde eins og þeir/Christs Þienare eñ framar eñ þeir/Nañ hafe erfidad meir eñ þr/opttar i Næska vered eñ þeir/ þa endar hñ med þessu Atqvæde/ Ef hroosa skal/þa vil eg hroosa af þm Hlutum er Veikleika

leika minum vidkoma/ 2. Cor. 11. og eñ framar seiger hañ/ Cap. 12. Eg mun miklu fegnastur hroosa mier af Veikleikanū/ so ad Mactlur D Rottenis bue i mier/ þar fyrer em eg vel til Frids i Veikleikanū/ J Forsmaneñe/ J Naudunū/ J Offsoknunū/ J Angistene fyrer Christum/ þvi þa eg er Veikur/ þa er eg Mattugur. So er þar nu eingeñ Ryfdoomur/ eingeñ Styrkleike/ eingeñ Heidur/ eingeñ Fegurd/ eingeñ Skynseme/ eingeñ Mactlur/ eingeñ Dyrd/ eingeñ Prÿde nema i Gude alleina/ og eckert þad Meñ kuñe ad vegsamast fyrer/ nema einsomul e hræsnislaus Audmykt fyrer hañ. Þvi vil eg enda þtta mitt Tal til ydar Guds Born med Pauls Ordum/ af Pistlenum til Gal. 6. Þad verde mier ecke/ ad eg hroose mier nema af Krosse Drottenis vors Jesu Christi/ fyrer hvorn mier er Heimureñ Krossfestur/ og eg Heimenum. Honum DRottne JEsu med Fodur og Heilogū Anda / einum og þreñum Odaudlegum Konunge/ og alleina Ryfum/ sie Lof og Heidur/ Kraptur og Styrkleike/ Æra og Vegsemd/ sögd og sungeñ af ollum Tungum Eingla og Maña/ nu hiedañ i fra og ad Eilifu/ A M E N.

# A Joola Nottena.

Gudspialled/ Luc. 2. Cap.

Hañ Tijma. Og þad bar til a þeim Dogum / ad þad Bod gieck ut fra Keysaranum Augusto / þad Heimureñ allur skyllde Skattskrifast. (Þeße Skattskrift hoofst fyrst upp þa Cyrenius var Landstioornare i Syria.) Og þeir fooru aller ad lata Skattskrifa sig/ hvor til siñar Borgar. Þa foor og Joseph af Galilæa ur Borgeñe Nazareth / upp i Judæam / til Davids Borgar Bethlehem / af þvi ad hañ var af Huse og Kyne Davids/ so ad hañ liete Skattskrifa sig þar med Mariu siñe Festar-Konu Oliettre. Eñ þad skiede so/ þa ed þau voru þar/ ad þeir Dagar fullnudust/ ad hun skyllde fæda/ og hun fædde siñ Frumgieteñ Son/ og vafde hañ i Reifum/ og lagde hañ nidur i Jotuna/ þviad hun

hun fieck eckert añad Rum i Giesta-Herbergenu. Og Fiarhyrdarar voru þar i sama Bygdarlage um̃ Grandana vid Fiarhuseñ / sem geimdu og vøktu yfer Hiord siñe um̃ Nootteña. Og sia þu / þad Eingell DRottens stood hia þeim / og Guds Byrte lioomade i kring-um þa / og þeir urdu miøg Ottaslegner. Og Eingelleñ sagde til þeirra: Hirded þier ecke ad hrædast. Sioed / eg boda ydur mikeñ Fognud / þañ er skier øllu Foolke / þviad i Dag er ydur Lausnareñ fæddur / Sa ad er Christur DRotteñ i Borgeñe Davids. Og hafed þad til Merkis / ad þier munud finna Barned i Reyfum vafed / og lagt vera i Jotuna. Og jafnsnart þa var þar hia Einglenum mykell Fiølde Himneskra Hersveita / sem lofudu Gud og søgdu: Dyrd sie Gude i Upphædum / og Fridur a Jordu / og Moñum goodur Vilie.

## Exordium.

SKielfeleg Ognan munde vesølu Mañkyne hafa staded af þvi hrædelega Straffe / med hvøriu hiñ Riettlæte Gud straffade hiñe vantruudu Verølld a Døgum Noa / nema hañs Gæska hefde gjørt Sattmaala vid Mañkyn-ed / ad hañ framar ecke villde Eydeleggia Jørdena med Vatns-Flodenu / og þessu til Merkis sett Bogañ i Skyeñ / seigiande: Þegar þesse Boge verdur i Skyenu / þa vil eg miñast a Sattmaalañ a mille Guds og allra lifande Skiepna / af øllu Holldе a Jørduñe / Gen. 9. Med þessum Hætte lyste hiñ Maduge Gud Fride yfer Jørduñe og þeim þar iñe biva. Og er þad vyst / ad hañ hefur liced under eins til þeirra sem a hañs Eingietens Sonar Nafn truua mundu. Fiærre sie þvi / ad Regnbogeñ kyñe þvi ad vallda / ad Gud yrde Mañenum Madugur / ei helldur þurfte hañ ad læta miña sig a þad hañ giøra villde / Jafnvel þoott Rit-ningeñ so tale ad Maña plagsid / Aller Hluter eru opner og nakter fyrer høn-um / Hebr. 4. Eñ þar JEsus situr til hañs hægre Handar / og hañ sier þar Lioo-ma siñar Dyrdar og Jmind siñar Guddoomlegrar Personu / Heb. 1. voru Hollde J-klædda / og bidiande fyrer oss / þa mæ hañ ei añars eñ miñast siña miklu Myskun-semda / sem vered hafa i fra Upphafe / sydañ hañ lofade ad Kuiñunar Sæde skyllde sundur mola Høggormsins Høfud / Gen. 3. Bid þier eins Teiknis af DRottne hønum Gude / sagde DRotteñ til Achas / Hvørt helldur þad er nidre i Under-diwpunum edur a Hædum uppe / Eñ hañ sagde: Ei vil eg þess bidia / so eg freyste ecke DRottens / Þa sagde Spamadureñ; So heyred þier þa af Huuse Davids / Hvørt er þad oflyted / ad þier þiaed Meñena / þad þier eirneñ villed angra miñ Gud / fyrer þvi mun DRotteñ sialfur giefa ydur eitt Teikn / Sia þu Ein Jom-frw mun Barn Gieta / og eirn Son Fæda / og hañ mun hun kalla Jmmanuel / Esa. 7. Þetta er Teikn hiñs mikla Guds og DRottens vors JEsu Christi / hvør ad er Eingell Sattmaalañs a millum Guds og Maña / Mal. 3. Hañ er øllum

til

til Merkes settur / ecke i Skyum Himensins / helldur Fæddur af eirne Jomfrw / a medal vor hier a Jørdunne / til Stadfestu þar um / ad þeir fae aller Kvittun Syndanna sem a hans Nafn trwa / Act. 10. Sæl eru þau Augu er sia hvad þier siaed / sagde Endurlausnarenn vid sijna Lærisveina / Luc. 10. Enn ecke talade hann alleina um þad / ad lijta sig og heyra med wtvortis Skilningarvitum / Marger sau hann og hneixludust a hønum / þeir sau hann / og þar var eckert gyrnelegt a hønum / Esa. 53. Þeir sau hann og byrgdu fyrer Slooner hønum / Luc. 22. Þeir sau hann og hræktu i hans Andlit / Matth. 26. Þeir sau hann / og sau under eins sijna Villo a hønum. Enn so sem Gud sette sinn Boga i Skyenn til þess ad hann være Nadar-Teikn øllum Mønnum / Og hefur hann þo sialfum sier geimt ad straffa þeirra Ogudlegt Framferde / sem hans Naad forsmaadu / so hafa þeir marger sied Christi Pioons Mind hier i Nadenne / er sia munu hann reidann og Ognarlegann / þegar hann kiemur i Skyum Himensins med Magt og miklu Vellde / Luc. 21. Enn ef vier villum vita um hvøria Sioon hann talar / þa heyrum hvad hann sagde vid Thomas Postula / Joh. 20. Af þvi þu saast mig Thoma / þa trwder þu / Enn Sæler eru þeir sem ecke sia / og trwa þo. Þad er ad sia JEsum Christum Guds og Mariu Son / voru Hollde klæddann / med Augum hins trwa Manns oss til Riettlætis / til Helgunar og eilijfrar Saaluhialpar giefenn / 1. Cor. 1. Oss seige eg / sem ad i Syndenne erum giettner / og i Syndenne fædder / Psalm. 51. Reidennar Børn / Eph. 2. og Guds Ovüner af Nattúrunne / Rom. 5. Þesse Dyrdar fulla Sioon verdur ydur og øllu Mannkyne framboden i Lofsaung heilagra Guds Eingla / Þar þeir sijngia: **Fridur a Jordu / Og Mønnum Goodur Vilie.** Og villum vier a þessare Hatijdis Noott þesse 4. Ord nockud giør yfervega / og af þeim hugleida / hvørsu Gledelegur ad þesse Fridur sie / og hvørnenn vier eigum hønum ad taka. Til þessa Eyrindis Framkvæmdar virdest ad hialpa oss vor Nyfædde Immanuel / Fyrer Krapt sinnar Forþienustu / A M E N.

## Utleggingenn.

HVad mun þvi vallda / Brædur mijner / ad hiner Himnesku Andar eru so glader a Fædingar Nottu Mannkynsens Endurlausnara? Ecke þurftu þr Frelsis vid / þvi þeir høfdu ecke syndgad. JEsus hafde Abrahams og ecke Einglanna Sæde uppa sig teked / Hebr. 2. Hvad mun þa vallda Gladværd þessare? Guds Sonur er ad sønnu fra Herra / eirnenn epter Manndoomenum / Hefde hann beded sinn Fødur / þegar hann var i sinne mestu Angist staddur vor vegna / þa munde hann hafa giefed hønum meir enn Tolf Legion Eingla / Matth. 26. Einglar komu og þioonudu hønum / þa hann var harknær yfergiefenn / og so ad seigia Andskotanum ofursélldur / þad hann freistadur yrde / Matth. 4. Fyrer þvi var þad ecke ad undra / þott þeir gladst hefdu / ef hinum

Nyfædda Syne Guds hefde nockur Heidur edur Vpphefd hlotnast / Eñ þad mætte ecke so kalla / þvi Paulus talar so hier um̃ / Phil. 2. Ad hañ hafe lytelæckad sialfañ sig / takande a sig Þioons Mind / og ordeñ Mønum lyk ur. Þad fyrsta hañ sa þessa vesæla Heims Lioos / var hañ lagdur i Eirn Stall / Luc. 2. Og skømu þar epter vard hañ Landflootta / Matth. 2. og um̃ allar synar Æfe-Stunder hafde hañ ecke þar hañ kyñe Høfde synu ad halla ad / Matth. 8. Þvi syneſt so sem ad hñs Kiørum være ecke so miøg ad fagna i þetta siñ. Hvad þa / Brædur myner? Vier vitum epter St. Pæls Muñe / ad Einglarner eru þioonustusamer Andar / utsender þm̃ til Þioonkunar / er Sæluhiælpena erfa skulu / Hebr. 1. Og þott ad vier sieum Vesæler og syndugar / þa er þo meire Glede hia þeim i Himnenum / yfer einum Syndara / sem Ydran giører / heldur eñ yfer Nyu og Nyutyu Riettlætum / Luc. 15. Þar af er audsæert ad þssar Guds Hersveit' hafa so teked Ast fooſtre vid oss auma Meñ / þott vier sieum þeim ad øllum Edlishætt um Olyker / ad þeir glediast yfer sierhvøriu þvi Happe / er nockur af oss hlytur / Eñ ef þeir so glediast yfer allre Giæfu vorre: Þvi mundu þr þa ecke Veniu framar lysa þssñ Føgnude / þegar oss a Næturtyma uppranñ su Sool / er alldrei hefur nockur fegre yfer Heimeñ skined / og þegar oss su Heill ad Høndum kom / af hvørre allra Guds Barna / Ryk ra z Fatæk ra / Hærre og Lægre Stiettar / nælægra z fiarlægra / fæddra og ofæddra / tymañleg z eilyf Heill og Hamingia uppsprettur og framflytur. Þess gietur Johañes / Cap. 1. Er hañ seiger: Ad af hñs Fyllingu høfũ vier aller medteked Nad fyrer Nad. Þar fyrer kioomar hiñ Guddoomlega Byrte i kryngũ Hyrdarana / so sm̃ vitnande þar um̃ / ad hñ være i Heimeñ boreñ / sm̃ ad er Lioome Fødursins Dyrdar / Og Imind hañs Guddomlegrar Persoonu / Hebr. 1. Fra hvørium Lioosaña Fødur / ad øll Good Giøf / og øll fullkomeñ Giøf kiemur. Jacob. 1. Hvørium og þocknast hefur ad i synũ Syne skule øll Fylling bua. Col. 1. Ja sialf Guddomsins Fylling / hvør ed bygger i hønum Lykamlega / Col. 2. Þad er i hañs Blessudum Mañdoome / er hañ af voru Hollde og Bloode hefur uppa sig teked / og giort Hluttakande

Gud-

Guddoomlegrar Náttkuru. Æ oſſ auma og ſynduga Meñ/vier ſiaum ecke fyrer Blindu Hollðſins/hvad miked oſſ veitt er i Jeſu Holldtekiu/ Mirkur vors Skilnings fær þad ecke høndlad/ ſo ſem þad er. Eñ Guds H. Einglum er jafnaſt ſtanda frame fyrer hønū/ Mattth. 18. þeim er alkuñug Sæla ſu er øllum Guds Børnum er tilbueñ/hvør- re vier tapad hofdum i Adams Falle / Þeim eru og ecke Okuñugar Þiſſler Fordæmdra er kveliaſt munu i augſyn heilagra Eingla/ſeig- er Johañes i hañs Opeñberingum/ Apoc. 14. Þvi er ecke ad undra/ þo Einglarner fagne/þar hiñ añar Adam/ſm̄ er DRotteñ af Him- num / 1. Cor. 15. var i Heimeñ boreñ / til ad frelſa oſſ fra øllum þeim Oſkøpū/ þvi þeir elſka Mañkyned/ Eñ viſſu ad i JEſu Fæd- ingu var Mofiunū giefeñ ſa Koſtur/ ad forlykaſt vid Gud/og ſettet verda i hañs Sonar Ryke/ Col. 1. Nu er þad vyſt ad ſøñu / ad vier ecke ad fullu þeckium hvad vier miſt høfum / edur hvør Plucka oſſ bueñ være / Nema Guds Sonur være i Heimeñ komeñ ſynduga Meñ Sæluhoolpna ad giøra/ 1. Tim. 1. Eñ þo mættum vier ad ſo mik- lu Leite þeckia vort Andlegt Volæde/ og ſo miked hefur oſſ ſagt ver- ed af hiñe eylyfu Dyrdarviſt i Himnaryke / ad ef vier legdum nockurn H ug a vort Maal/ þa mundum vier allshugar fegner verda/ ad vier høfū hana aptur feinged/og rooa øllum Arum ad þvi/ad vier ſleptū heñe ecke aptur ad nyu. Eg hefe noog ſagt hier um̄/þegar eg ſeige þad med Ordū Eſaiæ/hvøriu Synder vorar til Leidar koma: Ydar Synder ſeiger hñ/ſkilia a mille Guds z ydar/og ydar Ranglætingar vallda þvi/ad hñ byrger ſitt Andlit fyrer ydur/og vill ydur ecke Bæn- heyra/Eſa. 59. Nu vitū vier þ/ad vier lifū ecke eina Stund aan Synd ar. Heyred hvad David Konungur talar um̄ allt Holld/ Pſ. 14. Pſ. 5. og 10. og 36. Salomon Prov. 1. Eſaias 59. Þar er eingeñ Riett- lætur/ z ecke eirn/ þar er eingeñ ſkyntande/og eingeñ ſa ad Gude leite/ Aller hafa þeir afviked/aller til ſamans eru þeir Onyter ordner/þar er eingeñ ſa ed gott giøre/ og ecke eirn. Nu ſeiger Paall/ er hñ fører þeſſe Ord til ſyns Maals/Rom. 3. Nu vitū vier ad hvad ſm̄ Løgmaal ed ſeiger/ þ ſeiger þ þm̄ ſm̄ under Løgmaalenu eru/ ſo ad aller Muñ

at verde tilbyrgder/& allur Heimuren sättfallen vid Gud. Eñ ef Guds Sonur være ecke i Heimen komeñ til ad frida fyrer oss/þa værum vier aller under Løgmalenu/og eñ þa i vorū Syndū/þviad Løgmaled er þ Moysen utgiefed/eñ Naad & Sannleike er skien fyrer JEsum Christum/sagde Baptista þegar hñ hoof Christne Boded/ Joh. 1. So ad skilia nu Synder vorar a mille Guds og vor. Seiged nier þa/er þ ecke mikellrar Glede og Fagnadar vert/ ad hañ er oss i Heimeñ boreñ/ sem heiter Jmanuel/ Esa. 7. þad er Gud med oss? J hvørs Nafne hiñ nꜳduge Gud hefur til siñar Christne kalad/þad er til allra þra sm a hñs Nafn trua/Esa. 54. þott ad Fioll þsse hverfe a bak aptur/og þsser Hꜳlsar ur Stad hrærest/þa skal mñn Giæska ecke fra þier vjk ia/og Sattmꜳle mjns Fridar ecke vid þig skilia/seiger DRotteñ þiñ Myskunare O hvørsu gledelegt er þtta/þegar eirn fꜳrꜳdur Syndare/hvørs Samvitska vitnar a mote hønū/ad hñ hafe eckert añad eñ Daudañ forþienad/þegar hñ/seige eg/huxar til þeirrar Ognarlegu Tijdar/nær Konungar Jardareñar & Høfdingiarner/ & hiner Rijku & hiner Volldugu/seigia til Fiallaña & til Biargaña/falled yfer oss/og hylied oss fyrer Auglite hñs sm i Hꜳsætenu situr/ og þ Reide Lambsins/Apoc. 6. þess er og ad giæta/Brædr mjner/hvør hñ er/sem ad vier vorū Missꜳtter vid/Ofriduren er ad þvi Leite hrædelegur/sem hñ er Volldugur til/sm heriar a Landed/Hvør er sa Konungur/er hñ fær Hernad a mote ødrū Konunge/ad hñ eige setie sig nidur & rꜳdslage/hvørt hañ giete med tiju þusundū mꜳtt hønū/sem med tuttugu þusund kiemur a moote hm: sagde DRotteñ vid Læresveinana/Luc. 14. til ad sijna þeim hvør ad være Munur Guds & Mañā. Munum vier giete svarad hinū Riettlꜳta Gude einu a moote þusun:/ef hañ vill i Doom vid oss ganga/Job. 9. Hañ er HErrañ/vier erū þrælar ner/ hañ hefur skapad oss/ vier vanrꜳkꜳpum oss Daglega/ hañ hefur oss allt gott giørt / vier giørum allt Jllt a moote hønū. Hañ vegur Fiollen a Vigt/og Hælsana med sijnū minsta Fingre/Esa. 40. Vier megnū ecke ad giøra eitt svart Hꜳr hvijtt a voru Høfde/ Matth. 5. Nia hønū er eingen Umbreiting edur Mind til Umbreitingar/Jac.

I.

1. Vier erũ ein Vatnsboola/Vier megnũ ecke hinũ minsta Vesælinge hid minsta Mein ad vinna an hns Vilia/Nañ hefr Valld til ad kasta Lyfe og Sælu i eilyfañ Elld / Matth. 10. N vør vill fa stadest nær stykur HErra er reidur: Hvørsu Fagnadarsæll er þa Bodskapur þsse ad vier Fridkeipter erũ/z i Sætt komner vid hñ sm allt Valld hefur bæde a Himne og Jordu! Matth. 28. Og ef vier vilium ganga nær og skoda/ hvør ad sie Mismunur Løgmalsins sem fyrer Moysen er giefed/ Joh. 1. og Evangelii/sem Christur hefur fært oss ur Skaute Fodursins/ þa er þ i mørgũ Hlutũ audsied: Løgmaled var med stoore Ognan z Reidarþrumũ utgiefed/ef ad jafnvel eitt Kvikinde snerter Fialls-Ræturnar sagde Gud/ Exod. 19. þa skal þad Dauda deyia. Nid fyrsta Nya Testamentesins Evangelium / er med Lofsaung heilagra Eingla bodad/z almenelegu Fridar Bode yferlyst. Allt Fialled Sinai skalf z titrade af Guds Ognan. Þar sæust Leiptraner z Elldingar/so ad Moises/s var hiñ meste Fullhuge/z so var kuñugr Gude/ ad hañ talade vid hañ eins og Madur vid Mañ talar / Exod. 33. Nañ sagde: Eg em hræddur og skiælfande/Hvad Paulus tilfeltur til Dæmis um þsse stoor Undur/Ebr. 12. Eñ hier lioomar Guds Byrte i kringũ Hyrdarana. Og Eingilleñ seiger vid þssa vesalings Smala-Meñ: Ottest ecke/ þviad i Dag er ydur Lausnareñ fæddur/ sa ad er Christur DRotteñ i Borgeñe Davids-Meñ hallda ad Einglarner hafe geinged a mille Guds og Moisen/til ad afhenda hønũ Løgmaled/eda ad vysu a einhvørn Hatt þionadad þssu/þad seiger Stephanus hiñ fyrste Pyslarvottur Guds/ nærre med berum Ordum kvisvarsiñum/ Act. 7. þad stadfester St. Paall/Gal. 3. og Hebr. 2. Eñ ei heyrest ad þeir hafe þa blydlega til hañs talad/ sem ei var Von/ þvi Løgmaled verkar Reide / Rom. 4. Og er vegna Yferkrodslunar utgiefed/Gal. 3. Eg vil ecke fa mier til Orda þær grimũ Hookaner/ er Løgmalenu fylgia. Ef þu hlyder ecke Raustene DRottens Guds þyns seiger Moises/Devt. 28. Þa skulu allar þessar Bølvaner koma yfer þig z høndla þig Bølvadur skalltu i Borgeñe vera/bølvadur a Akriñũ/bølvud skal þyn Hyrdsla vera/ hvar þynar Afgangs Leifar

erū/z bolvadur skal þiñ Lyffsens Avoxtur vera/þiñ Jardar Avoxtur og þiña Sauda/ Bølvadur skalltu vera nær þu geingur iñ/bølvadur nær þu utgeingur/ med ødru fleira/z allre þeirre Olucku er Løgmaal sins Yferkrodsla steiper yfer syndug^r Maññeskiur z hrædelegt er upp ad telia. O/hvørsu er þad Olykt hønum/er sagde; Komed til myn aller þier sm Erfide drygged z þunga erud þiader/ eg vil endurnæra ydur/ Matth. 11. Nañ medtook Tollheimtumeñ z Bersynduga/ aat og drack med þeim/ Luc. 15. Til ad æviña þa til Guds Rykis/ þolde Bryxle og Amæle vondra Mañg/ þeirra vegna. Nañ ed sagde vid hina Ber-syndugu Hoorkonu/ hafe eingeñ fordæmt þig/ so fordæme eg þig ecke/ helldur/ gack burt og syndga ecke framar / Joh. 8. So ad þad maa satt jaata/ad hiñ naaduge Gud heft ecke um Skør fram spaad uñ siñ Eingieteñ Son/ Esa. 42. Sia miñ Þioon þañ er eg aññast/og miñ hiñ utvalde/ a hvørium eg hefe Velþocknan/ eg hefe hønū miñ An-da giefed/hñ mun Doomeñ utflytia medal Heidiña þiooda/hñ mun hvørke kalla nie hroopa/og hñs Raust mun ecke heyrast a Strætunū/ þañ brukada Reir-Legg mun hañ ecke i sundur briooka / og þañ lytt-logande Hørkveik mun hañ ecke utslæckva / hañ mun kieña ad hallda Domeñ med Sañleykanū/hñ mun ecke Møglunarsamur nie hrædeleg ur verda/so ad hñ a Jordu Domeñ uppbyrie og Eyarnar munu epter hñs Løgmaale vænta. Þegar þier nu þetta hvørtveggia samañbered/ Brædur myñer/og ef þier þykest nockru vid Gud seker vera/ þa er lyk-legt ad þier munud fiña til i Hiarta ydar / hvørsu gledeleg ad sie JEsu Fæding. Gydingū var Føgnudur þsse allra fyrst bodadur/ so sm Von var til/so ad Spaadomarner yrdu uppfyllder/þss gieta þeir St. Paall og Barnabas/ Act. 13. er þeir søgdu vid þa: Til ydar byriade fyrst ad tala Guds Ord/eñ vær adrer høfū þss sydañ noted/þar fyrer spa^r Esaias so uñ Jerusalem: Myrkred mun hylia Jørdena/z Diñ añ þiodernar/Esa. 60. Eñ Drotteñ mun uppreña yfer þier/og hñs Dyrd mun siaast yfer þier/z Heidingiarner munu ganga i þyñu Lioose. Þvi lyser Eingilleñ i Samtalenu vid Hyrdarana/þar hñ seiger: Eg Boda ydur mikeñ Føgnud/þañ er skier øllu Foolke. Hier er ecke Gyd-

ingur nie Griskur edur Schyta / ecke Þræll edur Frelsinge / Gal. 3.
Helldur aller eitt i Christo Jesu/Col. 3. Epter hñs Løgmaale munu
Eyarnar vona/seiger Esaias 40. þad eru heidnar Þiooder/So plagar
Ritningeñ þær optlega ad kalla/Þetta meigū vier bæde ad Raun og
Nafne tileinka oss/sem byggiū Hoolma þennañ/ ad søñu hefur Guds
eilijf Fyrerhyggia skoted oss ut under hid ytsta Heimsins Skaut/ kañ
skie z ad mørgū þykia meige/ad vier høfū Var-Hluta fared af marg
re Fullsælu Heimsins/eñ þar a mote høfū vier ecke ad seigia af marg
re Þrre Olucku z Andstreime/sm̄ añarstadar i Heimenū plaagar synd-
uga Meñ/ svo vier erum skyllduger ad vidurkieña / ad Gud hefur vel
til vor giørt/ef vier kyñū med ad fara. Eñ hvørneñ sem þssu er var-
ed/þa hefur hñ ecke giørt oss Afskipta af Andlegū Hlutum/sm̄ mest
a rijdur. Stutt Stund er þad/ad vier eigum vid þetta Tijmanlega
ad bua/hvørt helldur oss geingur med edur moot. Eñ eins vel er oss
JEsu Blessud Tilkoma i Hollded bodud og ødrū/ eins vel hñs Pijna
og Daude/eins vel hañs Vpprisa/ eins vel hañs Vppstigning/ eins
vel Vtsending hins Heilaga Anda/a eingu af þssu høfū vier nockurn
Skort/helldur eñ hvør øñur Þiod i Heimenū/og ef eg maa seigia/þa
erū vier betur hier med forsorgader/eñ marger/þvi høfū vier aungvu
sijdur Ordsøk til ad fagna og Lof sijngia hinū gooda Gude i Hiørt-
um vorum/Col. 3. helldur eñ allur Heimureñ/Jaa øll Guds Christ-
ne/ hvar hellst sm̄ hun er i Heimenū/ hun maa saña þad satt ad vera/
er Paulus seiger/ Eph. 2. um̄ Heidingiana: Nu eru þier i JEsu
Christo/sm̄ adur fiærre vorud/nalæger ordner fyrer Blood Christi/
þvi hañ er vor Fridur/ hañ sem giører eitt af baadum/ og Gyrdingu
Midveggiarens hefur nidurbroted. J kryngum Jerusalems Mustere
var eirn Stein-Veggur/þangad leyfdest Heidingium ad koma/eñ ecke
leingra/so ad Þionustugiørdeñ ecke saurgud yrde af Oumskornū Moñ
um/z til þessa lijtur Postuleñ i þessū Ordū. Eñ sijdañ Guds Son-
ur er i Heimeñ boreñ/þa er i Christo hvørke Vmskurn nie Yferhud/
Gal. 5. Þvi seiger og Paulus aptur / ad hañ afmaad hafe Løgmaal
Bodordaña/ sem var iñefaled i Setningunum fyrer sitt Hollo/so hañ
giørde

